# IN MEMORIAM

## HEIÐURSFÉLAGAR OG FORSETAR

His Excellency Lord Tweedsmuir, Hon. Patron

His Excellency the Rt. Hon. The Earl of Athlone, K.C.

Kjartan Helgason, fyrrum prófastur

Stephan G. Stephanson, skáld

Frú Stefanía Guðmundsdóttir, leikkona

Prófessor Sv. Sveinbjörnsson, tónskáld

Þorbjörn Bjarnason, skáld (Þorskabítur)

Einar H. Kvaran, rithöfundur

Ragnar E. Kvaran, fyrrum prestur og forseti

Kristján Níels Júlíus (K. N.), skáld

Séra Jónas A. Sigurðsson, skáld og forseti

Dr. Rögnvaldur Pétursson, forseti og ritstjóri

Prófessor F. S. Cawley, Ph.D.

Friðrik Swanson, málari

Kapt. Sigtryggur Jónasson

Dr. B. J. Brandson, læknir

J. Magnús Bjarnason, rithöfundur

Dr. Hjörtur Thordarson, raffræðingur

Mrs. Guðrún H. Finnsdóttir, skáldkona

Friðrik Hallgrímsson, dómprófastur

A. S. Bardal, útfararstjóri

Ólafur Pétursson, fasteignasali

Sveinn Björnsson, forseti Íslands

Árni Pálsson, prófessor

Sigurgeir Sigurðsson, biskup

Ásmundur P. Jóhannsson

Dr. A. H. S. Gilson, U. of M. Pres.

Einar Jónsson, myndhöggvari

Jón J. Bíldfell, fyrrum ritstjóri

Einar Sturlaugsson, prófastur

Þ. Þ. Þorsteinsson, skáld

Dr. Sig. Júl. Jóhannesson, skáld

Gunnar B. Björnsson

G. J. Oleson

Halldór Hermannsson, prófessor

Dr. theol. Rúnólfur Marteinsson

Einar Páll Jónsson, ritstjóri og skáld

Dr. Þorkell Jóhannesson, háskólarektor

Rt. Rev. C. V. Pilcher, Sydney, Australia

Dr. John C. West, fyrrv. forseti U. of N.D.

Dr. Vilhjálmur Stefánsson

Thor Thors, sendiherra

Hon. Gudmundur Grimsson, Bismark

Mrs. Kristin Thorsteinsson, Gimli

Dr. Thorbergur Thorvaldson, Saskatoon

Guttormur J. Guttormsson, skáld

His Excellency the Honourable Vincent Massey, former Governor-General of Canada. Hon Patron

George P. Vanier, D.S.O., M.C., Governor-General of Canada Hon. Patron

# Félagatal Þjóðræknisfélagsins 1967

---

### A. Heiðursverndarar (Honorary Patrons)

Herra Ásgeir Ásgeirsson, forseti Íslands.

### B. Heiðursfélagar (Honorary Members)

Prófessor Sigurður Nordal, Reykjavík, Ísland
Dr. Watson Kirkconnell, President, Acadia University, Wolfville, N. S.
Dr. Henry Goddard Leach, New York, N. Y.
Jóhannes Jósefsson, íþróttamaður, Reykjavík, Ísland
Mrs. Jakobína Johnson, skáldkona, Seattle, Wash.
Mrs. Laura Goodman Salverson, skáldkona, Toronto, Ont.
Fröken Halldóra Bjarnadóttir, ritstj. Hlín, Blöndósi, Ísland
Jónas Jónsson, fyrrv. alþingismaður, Reykjavík, Ísland
J. T. Thorson, fyrrv. yfirdómari, Ottawa, Ontario
Árni G. Eylands, stjórnarráðsfulltrúi, Reykjavík, Ísland
Vilhjálmur Þór, bankastjóri, Reykjavík, Ísland
Gísli Jónsson, ritstjóri Tímaritsins, Winnipeg, Manitoba
Próf. Ásmundur Guðmundsson, fyrrum biskup Íslands
Séra Albert E. Kristjánsson, prestur, Blaine, Washington
Prófessor Richard Beck, Victoria B.C.
Dr. Helgi P. Briem, fyrrv. sendiherra, Reykjavík, Ísland
Sigurður Þórðarson, söngstjóri, Reykjavík, Ísland
Dr. Árni Helgason, raffræðingur, Chicago, Ill.
P. H. T. Thorlakson, M.D., Winnipeg, Manitoba
Stefán Einarsson, fyrrv. ritstjóri Heimskringlu, Vancouver, B.C.
Dr. Stefán Einarsson, próf. emeritus, Reykjavík, Ísland
Gunnar Thoroddsen, sendiherra, Denmark.
Valdimar Björnsson, ríkisféhirðir, Minneapolis
Guðmann Levy, fjármálaritari Þjóðræknisfélagsins, Winnipeg, Manitoba
Dr. theol. Valdimar J. Eylands, Winnipeg, Manitoba
Hon. John G. Diefenbaker, fyrrverandi forsætisráðherra Kanada
Hon. Dufferin Roblin, fyrrverandi forsætisráðherra Manitobafylkis
Guðmundur Í Guðmundsson, fyrrv. utanríkisráðherra Íslands
Sigurður Sigurgeirsson, bankaritari, Reykjavík, Ísland
Ólafur Hallsson, Eriksdale, Manitoba
Dr. H. H. Saunderson, President University Manitoba
Dr. Finnbogi Guðmundsson, Reykjavík, Ísland.
Einar Baldvin Guðmundsson, formaður H/F Eimskipafjelags Íslands.
Bjarni Benediktsson, forsætisráðherra Íslands
Grettir Leo Johannson, ræðismaður, Winnipeg, Man.
Ingibjörg Jónsson, ritstjóri Lögbergs-Heimskringlu, Winnipeg, Man.
Ambassador Pétur J. Thorsteinsson, Washington, D. C.

**C. Styrktarfélagar**
**Sustaining Members 1967**

Dr. and Mrs. Richard Beck

Rev. Philip M. Petursson

Mrs. K. R. Johnson

Mrs. Jennie E. Thorwaldson

Mr. G. L. Johannson

**D. Life members**

K. Valdimar Björnson, Minneapolis, Minn., U.S.A.

Björn Björnson, Consul of Iceland, Minneapolis, Minn., U.S.A.

Dr. Helgi P. Briem, Reykjavík, Iceland

Grettir Eggertson, Winnipeg, Man.

Dr. Árni Helgason, Consul of Iceland, Wilmette, Ill., U.S.A.

Eric Ísfeld, Winnipeg, Man.

Grettir Leo Johannson, Consul of Iceland, Winnipeg, Man.

J. Walter Jóhannson, Pine Falls, Man.

Mrs. B. E. Johnson, Winnipeg, Man.

Guðmann Levy, Winnipeg, Man.

Mrs. Anna Margrét Levy, Winnipeg, Man.

Óskar E. Levy hreppstjóri, Ósum, Húnavatnss., Iceland

Gunnar R. Pálsson, Lake Park, Florida, U.S.A.

Rev. P. M. Pétursson, Winnipeg, Man.

Árni Sigurðsson, Seven Sisters Falls, Man.

Dr. P. H. T. Thorlakson, Winnipeg, Man.

Dr. Richard Beck, Grand Forks, N. Dak.

Mrs. Margret Beck, Grand Forks. N. Dak.

Brynjólfur Jóhannesson, leikari, Reykjavík, Ísland.

Prof. Dr. Helgi Johnson, R. R. 3 Somerset, New Jersey, N.Y., U.S.A.

Hannes J. Petursson, Toronto, Ont.

Gisli S. Gislason Lundar, Man.

1. ÍSLAND

**E. Ársfélagar**

Jóhannes Eiríksson, Kristneshæli, Eyjafjarðarsýslu

Seðlabanki Íslands, Reykjavík

Séra Ásgeir Ingibergsson, Hvammi í Dalasýslu.

2. ENGLAND

The Library, University College, London. Gower Street, W. C. L., England.

3. REPUBLIC OF IRELAND

Dr. James Delargy Director "Irish Folklore Comm," University College, Dublin 2.

4. CANADA

**Atikokan, Ont.**

Einar I. Swanbergson

**Baldur, Man.**

Hansina Gunnlaugson
Mrs. B. K. Jónsson
Mrs. Rose Lewis
Mrs. J. A. Sveinsson

**Brandon, Man.**

Dr. E. J. Skafel
Mrs. Elin M. Hood
Miss Helen Bjarnason

**Elfros, Sask.**

Helgi Hornfjörð
Rósmundur Árnason

**Foam Lake, Sask.**

Mrs. Steinunn Inge.

**Eiriksdale, Man.**

Mrs. J. R. Johnson.
Miss Emma J. Sigurdson.

**Hayland, Man.**

Sigurður B. Helgason

**Kristnes, Sask.**

Guðmundur Stefánsson
Bæring Gablielsson

**Leslie, Sask.**

Ásgeir Gíslason
Harry Thorsteinson

**Matheson Island, Man.**

Árni G. Johnson

**Montreal, Que.**

Mr. and Mrs. Ingvar Gislason

**Chilliwack, B. C.**

Mr. and Mrs. K. A. Magnússon.

**Langruth, Man.**

Mrs. B. Bjarnason,
V. Valdimarson.
Mrs. J. (Kristlaug) Finnbogason

**Islington, Ont.**

Mrs. Ragnhildur Guttormsson.

**Kinsota, Man.**

Sveinn Johnson

**Mozart, Sask.**

Magnus Skafel
Marino Sigurðsson

**McCreary, Man.**

Mr. and Mrs. Hilda Crout

**Prince Rupert, B. C.**

Mrs. K. Einarsson

**Ottawa, Ont.**

August S. Johnson.

**Regina, Sask.**

Mr. and Mrs. Hafsteinn Bjarnason.
Mr. and Mrs. L. W. MacPherson

**Shaunavon, Sask.**

S. H. Skaftfeld

**Riverton, Man.**

Hallgrímur Joh.Stadfeld
Valgeir G. Stadfeld
Kris. Thóransson
S. B. Johnson
Guðjón E. Johnson

**Toronto, Ont.**

Mrs. H. L. Robson

**Vancouver, B.C.**

Mrs. Alla Warburton
Herman Sigurdson
Mrs. Thordis Fisher
Percy G. Moore
Sigurður Sigurðsson
Mrs. Thelma Erlendson
Sigrid Watts
Mrs. Ella Bruce

**Swan River, Man.**

Mrs. Lára Sveinsson

**Westbourne, Man.**

Mrs. Guðrún Thorsteinsson

**Winnipeg, Man.**

Mrs. L. A. Björnson
J. A. Eastman
Mrs. Alma S. Eastman
Miss Vilborg Eyjólfsson
Miss Carolina Gunnarsson
Mrs. Sara Gillies
Mrs. Gyða Hurst
Halldór J. Stefánsson
David Björnson
Mrs. Rose Björnson
G. F. Jónasson
Loyd Magnus
J. M. Page
Simon Shannon
J. H. Johnson
Miss Katrín Brynjólfsson
Magnús Elíasson
Mr. and Mrs. Earl J. Helgason
Mrs. Maria Sivertson
Mrs. Halldóra Peterson
Mrs. Lara B. Sigurdson
Mrs. Kristin Depoe
Miss Fanney Sigurdsson
Mr. Haraldur Einarson
Christine Hannesson

**White Rock, B.C.**
Kristinn O. Oddson
Dr. and Mrs. S. E. Björnsson

**Wynyard, Sask.**
Magnús Jónasson
Mrs. Gudrun Finnson
Walter Paulson, B.A., LL.B.
John Sólvason
Domhildar Johnson

5. BANDARÍKIN

**Boston, Mass.**
Kormákur Ásgeirsson
Kapt. Jóhannes G. Ásgeirsson
Valgeir Einarsson
Kapt. Thor Guðmundss.
Kapt. Guðm. Jóhanness.
Gunnlaugur Jónsson
Kapt. Theodór Jónsson
Guðmundur Pálsson

**Cashmere, Wash.**
Chris Guðmundson

**Charlottesville, Virg.**
Prof. R. L. Kellogg

**Ft. Landerdale, Fla.**
Gunnlaugur Illugason

**Grand Forks, N. Dak.**
Mrs. V. Guðmundson, University of N. Dak. Library
Dr. Arne Brekke, University of N. Dak.
Emilie J. Anderson

**Ithaca, N.Y.**
Vilhjálmur Bjarnar

**Bremerton, Wash.**
Rev. G. P. Johnson

**Chigago, Ill.**
George Hanson

San Diego, Calif.
Mrs. J. K. Steinberg

**San Rafael, Calif.**
Miss Sigrun Johnson

**Seattle, Wash**
Rev. and Mrs. Kolbeinn Seimundson
Mr. and Mrs. E. Johnson

**Lincoln, Nebraska**
Prof. Paul Schach

**Hopple, N. Dak.**
Mrs. Laufey Aaland

**Orange, Calif.**
Dr. and Mrs. J. Bergsteensson

**New Brunswick, N.J.**

Prof. Helgi Johnson,
Rutgers University
Library

**Minneapolis, Minn.**

G. T. Athelstan
Mrs. Edda Laxdal
Miss Hjördís Bjarnason
Mrs. Margret Arnar

**Rochester, Minn.**

S. E. Thorvaldson, M.D.

**New Haven, Conn.**

Yale University Library

**Hickville, L.I., N.Y.**

Olaf Helgason

**Portland, Oregon**

Miss Ollie Gislason

4. DEILDIR OG SAMBANDSFÉLÖG

**The Icelandic Society of New York**

Hannes Kjartansson
Miss Halldóra Rútsdóttir
Ludvik Jónsson
Richard Richardson
Mrs. Margrét Rossback
Capt. Magnús Norðdahl
Mrs. William Richards
Mrs. Eane Thomson
Mrs. Nanna Kolberg

**Deildin „Ísland", Morden, Man.**

Forseti
Willie Olafson
Ben S. Einarson
Lorry Einarson
Andy Gíslason
Ingi Olafson
Paul Sigurdson
J. B. Johnson
Mrs. J. B. Johnson
Óli Lindal
Mrs. Freda Lindal
Mrs. Willie Ólafson
Willie Ólafson
Jóhann P. Thomasson
Thomas Thomasson
Mrs. Kristín Thomasson
Guðrún Thomasson
Janathan Thomasson
Dr. Jon Guðmundson
Arni Gillies
Paul Sigurðson

**„Brúin", Selkirk, Man.**

Forseti
Jack Björnson

Varaforseti
Th. Skagfjörð

Skrifari
Guðrún Vigfússon

Féhirðir
Allie Goodbrandson

Varaféhirðir
Ola Magnússon

Fjármálaritari
Gestur Jóhannson

Aðrir meðlimir
G. K. Halldórson
Bill Indriðason
Beggi Pálsson
Jafeta Skagfjörð
Sigurbjörg Björnson
Ola Magnusson
Margrét Goodman
Kristinn Goodman
Friðrik Nordal
Sigrún Nordal
Einar Thorvaldson
Vigdís Johnson
Rúna Magnússon
Christie Johnson
Dr. Oli Johnson
Johanna Goodman
Pete Thorsteinson
Árni Stefánson
Kristín Stefánson
Emma Bessason

**„Frón", Winnipeg**

Forseti
Skúli Johannson

V. Forseti
Haraldur Bessason

Skrifari
Páll Hallson

V. Skrifari
Hrund Skúlason

Féhirðir
Jochum Asgeirsson

V. Féhirðir
Heimir Thorgrímson

Fjármálaritari
Gunnar Baldvinsson

V. Fjármálaritari
V. Lárusson

**Æfifélagar**

Ævifélagar:
Grettir L. Johannson
Séra Philip M. Pétursson
Walter Johannson
Grettir Eggertson
Guðmann Levy
Anna M. Levy
Mrs. B. E. Johnson
Eric H. Ísfeld

**Meðlimir**

Mr. and Mrs. John J. Arnason
Mr. and Mrs. Jochum Asgeirsson
Mrs. Oddny Asgeirson
Mrs. Shirley Block
Miss Thorbjorg Brynjolfson
Mr. Olafur Bjarnason
Miss Steinunn Bessason
Prof. and Mrs. Haraldur Bessason
Mr. and Mrs. J. T. Beck
Mrs. Albertina Benson
Mr. R. Bergsson
Mr. Andres Bjornson
Mr. Guðmundur Bjarnason
Mr. Olafur Bjornson
Mr. Skuli Böðvarson
Mr. and Mrs. N. O. Bardal
Mr. and Mrs. Gunnar Baldwinson
Mr. Friðbjorn G. Davidson
Mr. and Mrs. H. F. Danielson
Mrs. R. Davidson
Mrs. Carolina Dunning
Mr. and Mrs. Thorsteinn Eastman
Mr. Gunnar Erlendsson
Mr. and Mrs. Paul Einarson
Mr. Arni G. Eggerston Q.C.
Mr. Jens Eliasson
Mrs. Olafia Finnbogason
Mr. Fred Fridfinnson
Mr. and Mrs. S. A. Freeman
Dr. V. J. Eylands
Miss Lily Eyjolfson
Mrs. Asa Fridrikson
Mrs. Ingibjörg Goodridge
Mr. and Mrs. Magnus Gunnlaugson
Mrs. R. Gislason
Mr. and Mrs. Ágúst Guðmundsson
Mrs. Laufey Helgason
Mr. and Mrs. Páll Hallson
Mr. and Mrs. H. B. Hallson
Mr. and Mrs. Ben Heidman
Mr. H. L. Hallgrimson
Mrs. Eric Isfeld
Mr. Thorsteinn Isleifsson
Mrs. Rosa Johannson
Mr. Hjörtur Josephson
Mr. Sonrri Josephson
Mr. Walter Johannson
Mrs. J. Johnson
Miss Hala Josephson
Miss Bertha Jones
Mr. and Mrs. Egill Jonasson
Mrs. Thora Jonsson
Mr. and Mrs. Skuli Johannsson
Mrs. Johanna Jonasson
Mr. Harold Johnson
Mr. and Mrs. Palmi Johnson
Mr. Björn Johnson
Mrs. B. E. Johnson
Mrs. Ingibjörg Jonsson
Mrs. Kristín Johnson
Mr. and Mrs. Jakob F. Kristjansson
Mr. and Mrs. Wilhelm Kristjanson

# TÍMARIT

## ÞJÓÐRÆKNISFÉLAGS ÍSLENDINGA

FERTUGASTI OG NÍUNDI ÁRGANGUR, 1967

Ritstjórar

GÍSLI JÓNSSON

HARALDUR BESSASON




WINNIPEG, MANITOBA

**Gefið út af Þjóðræknisfélagi Íslendinga í Vesturheimi**

1968

# Efnisyfirlit



His Excellency
THE RIGHT HONORABLE ROLAND MICHENER, C.C.
GOVERNOR GENERAL OF CANADA
PATRON, THE ICELANDIC NATIONAL LEAGUE

Dr. RICHARD BECK:

# Hafið í ljóðum vestur-íslenzkra skálda

Fyrir allmörgum árum skrifaði ég grein um „Sævarljóð Stephans G. Stephanssonar“, sem kom í **Sjómannadagsblaðinu** í Reykjavík, og var endurprentað í afmælisbók minni **Í átthagana andinn leitar** (1957). Varð ég þess var, að sumum kom það á óvart og fannst það harla merkilegt, að skáldið, sem var sveitabóndi og dvaldi lengstum ævinnar vestur í Albertafylki inni í meginlandi Kanada, skyldi verða sjórinn og sæfarir eins oft að yrkisefni og raun ber vitni. En hér sagði djúpstætt Íslendingseðlið til sín, þótt umhverfið væri breytt. Sannleikurinn er sá, að þetta seiðmagn sjávarins fylgir okkur Íslendingum frá vöggu til grafar, hvert sem sporin liggja.

Ekki þarf heldur að blaða lengi í kvæðabókum annarra vestur- íslenzkra skálda, til þess að sjá þess næg dæmi, hve hafið, áhrifavald þess og minningarnar um það, áttu sér rjúpar rætur í hugum þeirra. „Sævarsöngvar“ Þorsteins Þ. Þorsteinssonar **(Vestan um haf)** hefjast á orðunum: „Mig hungrar í hafsins tóna.“ Síðan heldur hann áfram:

Mín sál verður skinin og skorpin
og skrælnuð og horuð og mjó,
að heyra aldrei hafsins raddir,
því hálf er hún komin úr sjó.

Við sæinn hún frumtón sinn
finnur
og friðandi vöggusöng,
sem bergmál, frá al-lífsins öldum,
um aldanna súlnagöng.

Í brimgnýnum bumburnar druna.
Hver bylgja kann nýjan slag.
En raulandi undiraldan
er íslenzkt kvæðalag.

Hér fléttast sævarþráin, meðvitundin um mótandi áhrif hafsins á íslenzka sál, og ættjarðarástin fagurlega saman. Seiðandi hljómur þess verður heillandi rödd Íslands í eyrum hins fjarlæga sonar þess.

Ekki sætir það þá neinni furðu, að þegar Þorsteinn er kominn til Vesturstrandarinnar og honum blasir Kyrrahafið við sjónum, yrkir hann mikið og andríkt samnefnt kvæði **(Ljóðasafn, I)**, þrungið íhygli og undirstraum heitra tilfinninga. Samhliða myndríkri lýsingunni á hafinu er kvæði þetta táknrænt. Verður það þó miklu fremur sagt um seinasta ljóðið, „Fyrir utan firði“ í kvæðaflokknum „Gamlir neistar **(Ljóðasafn, II)**, þar sem lýsingin á sjóferðinni verður hreinræktuð táknmynd af lífsferð skáldsins. Í kvæðinu „Með ströndum fram“ **(Ljóðasafn, II)** fléttast náttúrulýsingin og draumsýnir skáldsins saman, en jafnframt eggjar skáldið landa sína til frjósamra dáða í þágu lands og þjóðar. Lýsa þar sér vel Íslandsást hans og þjóðrækni, er voru djúpur og sterkur strengur í

eðli hans og lífshorfi, og finna sér víða á eftirminnanlegan hátt framrás í kvæðum hans, ágætlega í hinu snjalla kvæði hans „Heillaósk til Eimskipafélags Íslands“, ort í tilefni af stofnun félagsins (**Eimskipafélag Íslands 25 ára**, 1939, og **Ljóðasafn, II**). Er það kvæði ort í miklum hrifningaranda og hjartaheit hvöt til framsóknar í þessu og öðrum þjóðþrifamálum heimaþjóðarinnar. Slær Þorsteinn hér því öfluglega á sama streng og Stephan G. Stephansson gerði í stórbrotnu kvæði sínu af sama tilefni, „Skipaminni“. (Smbr. fyrrnefnda grein mína um sævarljóð hans).

Kjarnort og hreimmikið er kvæði Kristins Stefánssonar „Á siglingu“ (**Út um vötn og velli**), og glöggum dráttum dregin sú mynd, sem þar er brugðið upp:

Kvöldar um haf og heldur
hrönnin knerri í önnum.
Fjöll eru að rísa' og falla,
fleyið veltur á legi.
Glettingar-bára grettist,
gneyp yfir þiljur steypist,
gnýþung á stokkum gnestur,
gnollra seglin af hrolli.

Eimvélin dæsir, ymur
úfinn boðinn og skrúfan.
Viltur er söngur seltu:
sæhljóð í öllum ljóðum
vinda og langt til landsins,
langar mig komast þangað.
Unn, þó að kyssa kunni,
kaldrifjuð breytist aldrei.

Kvæði Kristins „Í beitivindi“ (**Út um vötn og velli**) er mjög af svipuðum toga spunnið, en er, eins og það ber með sér, ort um siglingu á Winnipegvatni, en ríkt er þó skáldinu hafið í huga, eins og sjá má af upphafserindinu:

Nú skal ýta út á djúp,
— undir þýtur strengur —
stafns með rýting Ránar hjúp
rista' í hvítar lengjur.

Kvæðið, sem er níu erindi, er allt í hringhendum, og ber því ágætt vitni bragfimi Kristins, og myndauðugt er það að sama skapi. Ást hans og aðdáun á hafinu er einnig ljósu letri skráð í prýðisvel ortu kvæði hans „Sjódropi“ (**Út um vötn og velli**), sem kveðið var þegar honum var fært glas fullt af sjó.

Lítið gætir sævarins í ljóðum Magnúsar Markússonar, en fallegri mynd bregður hann upp af hafinu og annarri náttúrudýrð Vesturstrandarinnar í þessu erindi úr kvæðinu „Á leið vestur yfir Klettafjöll „(**Hljómbrot**):

Fránhýri ægir með fallþunga kliðinn
frelsið og hreystina, töfrandi niðinn;
firðir og vogar með vinblíða hljóma,
vaggandi gnoðum í árdegis ljóma;
drangar og tangar og tindarnir háu,
titrandi, glitrandi straumarnir bláu,
gullroðinn skógur og grundirnar fríðar,
gróandi akrar, og dalir og hlíðar.

Hafið hefir einnig verið ofarlega í huga Magnúsar, er hann orti kvæði sitt „Við Winnipegvatn“ (**Hljómbrot**), en það hefst í ljóðlínunum „Í

hafsins heiði bláa í helgri sigurmynd."

Hið fagra kvæði séra Jónasar A. Sigurðssonar „Hafræna" (**Ljóðmæli**) er þrungið undirtón djúprar íhygli, en jafnframt hyllir hann íslenzka sjómenn í eftirfarandi erindum:

Í Ægis víða veldi
mun vegleg kirkja' og stór.
Og sjómenn sögulandsins
þar sitja innst í kór.

Þeir hrundu hratt úr naustum
að heimta' af Ægi skatt.
Í húmi hafs — og tára
þá Helja einatt batt.

Á skylda strengi slær séra Jónas í öðru smákvæði og fögru, „Við Svartahaf" (**Ljóðmæli**), þar sem táknmyndin er skýrum dráttum dregin.

Í **Ljóðmælum** Jóhanns Magnúsar Bjarnasonar, sem kunnastur er vitanlega fyrir skáldsögur sínar og ævintýri, er kvæðið „Víkingasnekkjan", ort, eins og skýrt er frá í athugasemdum aftan við bókina, í tilefni þess, að „sumarið 1893 sigldu tólf Norðmenn vestur yfir Atlantshafið á bát, sem smíðaður var eftir lagi hinna fornu víkingaskipa." Kvæðið er hressilega ort og lýsir aðdáun á fornum og nýjum hetjuanda norrænna manna.

Dr. Sigurður J. Jóhannesson orti skemmtilega sjóferðarvísu á leið sinni með seglskipi frá Skotlandi til Kanada. Varð hann að vinna öll skipsverk á leiðinni þó að hann í fyrstu þekkti ekkert til þeirra; hann vandist þeim samt smám saman, en lakast þótti honum að fást við kaðlaflækjurnar og varð honum þá þessi vísa á munni: (**Kvistir** og **Ljóð**):

Furðu strembin fundust mér
fyrrum Hómers kvæði,
en þúsund sinnum þyngri er
þessi kaðlafræði.

Hins vegar er kvæði Sigurðar „Báran og steinninn" (**Kvistir**) huglægs og táknræns eðlis, en á jafnframt rætur sínar í þeirri djúpu mannúðarkennd, sem einkenndi skáldið, lífstarf hans og skáldskap í ríkum mæli. Í ljóðrænu og innilegu kvæði sínu „Sjómaðurinn" (**Ljóð**) túlkar hann, í orðum sjómannsins sjálfs, af miklum næmleika líf hans og áhrif hafsins á hugsunarhátt hans, eins og fram kemur ljóslega í lokaerindum kvæðisins:

Mitt hjarta nálgast himininn,
ég hlusta á stormsins mál,
og djúpið hrífur huga minn
og heillar mína sál.

Ef landið heldur hug um stund,
þá hafið brosir mér,
og seiðir mig til sín á ný,
því sjómaður ég er.

Hin fjölþætta og prýðisvel orta ljóðsaga Gísla Jónssonar „Að boða baki" (**Farfuglar**), er, eins og heiti hennar gefur til kynna, táknræn að allmiklu leyti, en það er ástar- og harmsaga sögupersónanna. Jafnframt er þar brugðið upp glöggum myndum af hafinu og sæferðum, og sérstaklega í lýsingunni á söguhetjunni í þriðja kvæði ljóðflokksins:

Hann ólst upp á sjávarsíðu —
hann sofnaði' og vaknaði' í
öldunið.

Og særinn var alltaf hans
undrasvið
í afspyrnuroki og blíðu.

Og smákviku gljáfrið í grjóti
og gnýrinn í fallandi brimsins
skalf
hann stælti að þreyta við Ægi
afl —
við andóf, í logni og róti.

Hann lifði þar upp í anda
svo ótal margt fleira en sögur tjá.
Því óx út á sædjúpin öll hans
þrá —
og yfir til drauma stranda.

Og margoft þá sá hann sig sjálfan
sem sækonung, stýrandi' um
höfin blá.
Og knörinn með reiða hann
aleinn á,
en áhöfnin varning hálfan.

Ekki átti það þó fyrir honum að liggja. Að föður hans drukknuðum, flytur hann vestur um haf, og gerist þar á stríðsárunum sjálfboðaliði í sjóhernum, „því sjórinn var einasti óvinur hans," og lýkur ævidögum hans með því, að hann verður hafinu að bráð. Vísa Gísla „Sigling" (**Farfuglar**) er kjarnyrt og vel kveðinn samtímis gætir þar íhygli, er eykur gildi hennar:

Vindur af vogi stendur,
voðir þenur hann gnoðar,
unnur þars öskrar á grunni
undan báleyar tindum.
Skyldi' hún til hafnar halda
— höfn er skáhalt við stafni —
eða frá lýð og láði
leitandi' um djúpið beita?

Snjöll og margvís er táknræn sjósóknarlýsingin í skörulegum „Formannsvísum" Guttorms J. Guttormssonar, er hann orti fyrir minni Sigtryggs Jónassonar og flutti á 40 ára afmæli landnámsins í Nýja Íslandi (**Kvæðasafn**). Gott dæmi þess er eftirfarandi erindi:

Engu tapað, en öllu skipað
upp, hefur kappinn og þakkað
happið.
Allra fyrstur út á vastir,
utar flestum sótti hlutinn.
Kjörviður er í knerri dýrum,
kjölur og rengur endast lengi.
Verður sá með súðir ófúnar
settur í naust á fimbulhausti.

Hins vegar er kvæði Guttorms „Á Esjunni" (íslenzku hafskipi) hreinræktuð sjóferðarlýsing, vafalaust ort í fyrri Íslandsferð skáldsins (1938), prentað í **Kanadaþistli**. Kjarnmikið er málfarið, myndirnar skörpum dráttum dregnar, og ekki verður skáldinu fótaskortur í meðferð hringhendunnar:

Bringu arkar öldutröll
að með harki vega
— Dumbshafs svarka Dyngju-
fjöll —
digurbarkalega.

Engum brár að lauga lízt,
leikur grár þó kárni.
Nóg af tárum heims er hýst
hafsins bárujárni.

Fæst við hraðans hjálpartól
hönd, með kaðalsörum,
sjómanna' aðals út við pól,
æfð í svaðilförum.

Kvæði Einars Páls Jónssonar „Haf" (**Sólheimar**) lýsir því fagurlega og eftirminnilega, hve mikil ítök það á í huga hans. Þessi eru upphafserindi kvæðisins:

Fagra, bjarta, breiða haf, —
brúað sólargeisla staf.
Alla leið, sem augað sér,
ertu líkt og slípað gler.
Í þér speglast heiðishátt
himinhvolfið djúpt og blátt.

Líkt og bæn frá barnsins sál
birtast mér þín Huldumál.
Snemma unglings andi minn
yndis naut við barminn þinn.
Með eldi fyllta farmanns þrá
eg flúði þínar náðir á.

Í síðari erindum kvæðisins verður hafið skáldinu táknmynd lífsins, og er sú algenga samlíking þar færð í orðhagan og markvísan búning. Hið sama má segja um kvæði Einars „Brim" og „Í rúmsjó" (bæði í **Sólheimum**), og á það jafnt við um listræna efnismeðferð og táknrænar lýsingar þeirra. Í lokaerindi hins fyrrnefnda kvæðis lýsir sér einnig djúpstæður þjóðræknisandi skáldsins:

Hver sál, sem er íslenzks eðlis,
kýs ólgandi manndráps höf.
Því lífið er líkast brimi
og lognið þess hefndargjöf.

Í kvæði sínu „Lokaróðurinn" (**Skilarétt**) lýsir Páll S. Pálsson með glöggskyggni og samúð lífi og hugsunarhætti gamals sjómanns, sem brotið hefir bát sinn í lendingu og er hættur sjóferðum, en hugur hans er þó allur úti á hafinu. Er það auðsætt af upphafserindi kvæðisins, sem mjög er allt í sama anda með geðþekkum ljóðrænum blæ:

Hann situr við hafið og horfir á
hvítvængjuð sigla skipin.
Órættar vonir, ófyllt þrá,
óhugur, kvíði, nú sitja honum hjá
og bregða bliku á svipinn.
Hann átti þó líka forðum fley
með fannhvítum, þöndum voðum,
er stýrði hann sjálfur sterkri
mund
mót straumum og fram hjá
boðum.

Í kvæði Páls „Skipbrots-maðurinn" (The Castaway), sem einnig er í bók hans **Skilarétt**, renna sævarlýsingin og hin táknræna merking saman í fastmótaða heild, er nýtur sín því aðeins, að menn lesi kvæðið allt, og fylgir það hér á eftir:

Hefðir þú sjón, þá hér þú mundir
sjá
við hlið hans standa engil,
— drottni frá.

Á sandinn hljóða starir stjörnu-
mergð,
en stunur hafsins leika undir-spil
við hugsun manns, sem himins
mænir til
með höggvinn skjöld og brynju
— og slitið sverð.

Sem brotið skip, af brim-sjó rekið
lífs,
er bárur kaldar hafa leikið við,
hann liggur hér við ömurleika
alls,
og ekkert það, er veitir honum
grið.

En þá er eins og einhver rödd og
mund
hann endurveki: Tak þú sæng og
gakk,
þú lifir enn, — þú aðeins féllst
í blund —
og ávaxta og margfalda þitt
pund."

Hann stendur upp. Mót austri er
ganga hafin,
mót austri og sól — en skip-brots
sagan grafin.

Páll lætur getið, að kvæði sitt sé ort „með hliðsjón af kvæði eftir Þorvald Pétursson", son dr. Rögnvalds Péturssonar. Þorvaldur orti á ensku fleiri góðkvæði, svo sem „Við Öxará", er dr. Sigurður J. Jóhannesson sneri á íslenzku, og tekið er upp í ritgerð hans „Framtíðarbókmenntir Íslendinga í Vesturheimi" (**Tímarit Þjóðræknisfélagsins** 1951).

Prýðilegt er einnig kvæði Páls S. Pálssonar „Holskeflan" (**Norður-Reykir**), sem er allt í senn: táknrænt, hugsun hlaðið og meitlað um ljóðform. Skyldi það því lesið í heild sinni.

Páll Bjarnason yrkir langt kvæði „Hafið" (**Fleygar**), sem vafalaust er ort eftir að hann flutti til Vesturstrandarinnar, en hann var árum saman búsettur í Vanvouver, B. C. Af síðasta erindinu fá lesendur nokkra hugmynd um það, hverjum tökum skáldið tekur viðfangsefni sitt, en bein lýsing og íhugun haldast þar í hendur:

Við fótastól þinn stend ég, haf,
og stama lofgjörð mína;
og öll mín hugsun heillast af
að horfa á kvikmynd þína.
Þig aðeins hæðir mannlegt mál;
þar mætast afl og gifta.
En við það stækkar sérhver sál
að sjá þig hami skifta.

Frú Jakobína Johnson hefir, eins og kunnugt er, lengstum ævinnar verið búsett vestur á Kyrrahafsströnd (í Seattle, Washington). Fer þá að vonum, að þess gæti að nokkuru í kvæðum hennar, og verður það sérstaklega sagt um hjartnæm og móðurleg ljóð hennar til Stepháns sonar hennar „Blíði, bjarti morgunn" og „Þegar vindurinn blæs", sem bæði eru í bók hennar **Kertaljósum;** sverja þau kvæði sig, um ljóðræna fegurð, í ætt til annarra kvæða skáldkonunnar. Stephán, sem var háskólanemi, fórst á 20. aldursári með kafbát í Kyrrahafi 1945 (Smbr. inngangsritgerð séra Friðriks A. Friðrikssonar að **Kertaljósum**). Ekki er því að undra, þó að ljóð móður hans um hann séu djúpum söknuði þrungin, en minningin og friðarástin falla þar einnig í sama farveg.

Sami ljóðræni blærinn og næmleiki tilfinninganna einkennir kvæði Jakobínu „Jöklarnir horfnir" (**Kertaljós**), sem ort er á skipsfjöl á leið frá ættjarðarströndum eftir heimferð hennar þangað, og er þess vegna beinni sjávarlýsing heldur en ofannefnd kvæði hennar, sérstaklega fyrsta erindið:

Jöklarnir horfnir, — hafið eitt til
sagna.
Hægt skríður „Gullfoss", lágar
öldur rísa.

Árgeislar röðuls rakna þar og
brotna,
regnbogi smár í drafnarfaldi
glitrar.

En eins og næsta erindi kvæðisins ber glöggt vitni, gefur skáldkonunni sýn; samtíðin hverfur henni og fornöldin rís úr sævi:

Færeyjar heilsa, — hugarsjón mín
skýrist.
Hér sigldu langskip fyrir þúsund
árum.
Áræði farmanns finn ég anda'
í blænum,
forfeður mínir leita nýrra stranda.

Í seinni hluta kvæðisins spinnur skáldkonan þræði þeirrar hugarsjónar í framhaldandi og hugþekka mynd, og kemur þar ljóslega fram rótgróin ást hennar á fornum menningararfi vorum.

Kvæði Kristjáns S. Pálssonar „Uppgjafa formaðurinn" (Kvæðabók) er raunsönn og skilningsrík lýsing á gömlum formanni, sem enn sækir sjóinn á forn og kunn mið og fengsæl, og lætur sér það vel lynda, að yngri mennirnir leiti á djúpmiðin. Þetta er mjög vel ort kvæði, og ljóðformið fellur ágætlega að efninu, eins og sjá má af eftirfarandi erindum:

Mig kallar æ hin kalda dröfn
og kviki sær,
og ekki má ég una í höfn,
ef annar rær.

Nú gárar ellin grön og kinn
og gránar skör.
Á morgun kannske í síðasta sinn
ég sigli úr vör.

Nú harma' ég sízt þó hefjist dröfn
og hnekki för,
ef aðrir komast heim í höfn
með heilan knör.

Í fyrrnefndri ritgerð minni um „Sævarljóð Stephans G. Stephanssonar" dró ég athygli að því, hve honum, þeim mikla mannvini, rann til rifja manntap íslenzku þjóðarinnar í sjóinn, og kemur það hvergi eftirminnilegar í ljós en í kvæði hans „Sjómannaslagur". Eins og vænta má, hafa ýmis önnur vesturíslenzk skáld slegið á þann saknaðar- og samúðarstreng í kvæðum sínum.

Hjartnæmt og fagurt er kvæði Jóns Runólfssonar „Móðirin út með sjónum" (**Þögul leiftur**), og lýsir vel, hvernig henni, sem á eiginmann sinn úti á stormæstum sænum, er innan brjósts, en ótti hennar snýst í fögnuð, þegar bæn hennar er heyrð, og maður hennar er kominn heill af hafi.

Í **Ljóðmælum** Þorskabíts er langt kvæði „Bátstapinn", er segir frá drukknun fátæks bónda og háseta hans í fiskiróðri, er að vísu komust á kjöl eftir að bát þeirra hvolfdi í ofviðri, en ríkur nágranni þeirra, er á heimleið kom siglandi að þeim á kjölnum, telur sér eigi fært að reyna til að bjarga þeim vegna ofhleðslu báts síns. Til þess að friða samvizku sína sendir hann matarlausri ekkjunni nokkra fiska. Og þegar sjóvelkt lík manns hennar rekur á fjöru á landareign ríka bóndans, lætur hann flytja það heim til sín og sér um útförina. Hlýtur hann fyrir það mikið lof í útfararræðu prestsins yfir hinum látna. Kvæði þetta er lipurlega ort, og

víða hitta málmyndir og samlíkingar vel í mark; ekki leynir sér þar heldur samúð skáldsins með smælingjanum og fyrirliting hans á harðýðgi og hverskonar yfirskyni, sem áttu sér djúpar rætur í sterkri réttlætiskennd hans, og finna sér framrás í hinum mörgu ádeilukvæðum hans.

Mjög í sama anda og ofannefnt kvæði Jóns Runólfssonar er kvæði Bjarna Lyngholts „Sjómennskan" **(Fölvar rósir)**, og í kvæðinu „Skipbrot" (í sömu bók) skyggnist skáldið, með samúðarríkum skilningi, inn í hugskot ótrauðs farmanns, sem brýtur skip sitt í brimlendingu. Kvæði dr. Sigurðar J. Jóhannessonar „Dáinn" **(Kvistir)** er einnig að öðrum þræði mannúðarþrungin lýsing á sárum harmi sjómannsekkju.

Hér að framan hefir þegar verið getið allmargra kvæða, þar sem hafið eða siglingar urðu skáldunum efni táknræns viðhorfs til lífsins. Ástæða er til þess að taka til stuttrar athugunar nokkur fleiri slíkra kvæða vestur-íslenzra skálda.

Kvæði Jóns Runólfssonar „Skipaflotinn minn" **(Þögul Leiftur)** er ágætt dæmi slíkra kvæða, en það er ort með hliðsjón af „Poems of Progress", í því er sá tregatónn, sá hyggjuhiti og undirstraumur djúpra tilfinninga, sem einkennir mörg beztu kvæði Jóns. Upphafs- og síðasta erindi kvæðisins fara hér á eftir, en gefa þó aðeins takmarkaða hugmynd um það, hve samfelld er hugsun kvæðisins og hve vel samlíkingunni við hafið og haldið frá byrjun til enda:

Ef skip mín öll um öldugeim
í einum flota sigldu heim. —
Ó, hvílík undur! Eg held þá
að yrði höfnin næsta smá,
ef skip mín öll um öldugeim
í einum flota sigldu heim.

Ó, skín í heiði, himinsól,
á hafi mínu skipastól!
Ó, líðið, vindar, létt og hægt,
að leiðið megi verða þægt!
En er í hafi ólga hefst,
og Ægir kóngur fórnar krefst,
þá skip mín öll um öldugeim
hann eigi — bara ef „Þrá" kemst
heim.

Lipurlega ort og athyglisvert er kvæði Jónasar Stefánssonar frá Kaldbak „Sigling" **(Úr útlegð)**, ádeilukennt, eins og skáldinu var lagið, en varpar einnig með öðrum hætti ljósi á lífsskoðun hans. Bera eftirfarandi erindi því vitni:

Litlausa meðalmennskan
mannheimi lítið gaf. —
Með lík í lest hún siglir
leið sína um Dauðahaf.

Ég geri eins og aðrir,
en aldrei gleðst ég þó
með þrælum meðalmennsku,
á mannlífs Dauðasjó.

„Að sigla með lík í lestinni" er, eins og kunnugt er, runnið frá Henrik Ibsen, norska leikritaskáldinu fræga, en Jónas túlkar þá skoðun á samtíðinni á sína vísu.

Skal þá staðar numið. Ekki er hér þó um tæmandi upptalningu að ræða í þessum efnum. Eins og ritgerðin ber með sér um tilvitnanir, hefi ég takmarkað þær við prentaðar ljóðabækur umræddra skálda, og þeirra venjulega getið í svigum á

eftir tilvitnunum í kvæðin. Hins vegar hefi ég ekki farið yfir vesturíslenzk blöð og tímarit, enda hefi ég fæst þeirra við höndina. Vel má það vera, að þar sé að finna einhver kvæði um sömu efni, sem vert hefði verið að geta sérstaklega. Hvað sem því líður, má óhætt fullyrða, að framantalin dæmi eru næg sönnun þess, að sævarljóðin, í beinni og óbeinni merkingu eru snar þáttur og harla eftirtektarverð í skáldskap Íslendinga vestan hafs, og jafnframt glöggt vitni þess, hve fasttengd þau skáld eru æskuumhverfi sínu, ætterni og erfðum.

---

**Athugasemd frá ritstjórum**

Höfundur greinarinnar hér að framan, dr. Richard Beck, hefir um margra áratuga skeið lagt þessu tímariti efni, bæði í bundnu máli og óbundnu. Þangað til nú í ár hefir hann lengst af átt heima svo til á næstu grösum við ritstjórnarskrifstofu okkar, því að ekki er lengi farið milli Grand Forks og Winnipeg. Mikil breyting hefir nú orðið á þessu. Dr. Richard Beck á ekki lengur heima í Grand Forks, og finnst mörgum heldur erfitt að átta sig á þeirri staðreynd. Síðast liðið vor fóru þau hjónin, dr. Beck og frú Margrét, búferlum vestur til Victoria á Vancouvereyju. Hafði prófessorinn þá nýlega fyllt sjöunda áratuginn og þar með lokið óvenju löngum og viðburðaríkum starfsferli sem opinber embættismaður.

Þó að dr. Richard Beck hafi látið af opinberu embætti, mun hann ekki minnka við sig störfin, heldur sitja við skriftir og rannsóknir myrkranna á milli. Þau sannindi má meðal annars ráða af því, að þó að hann hafi nú flutzt tvö þúsund mílur í burtu frá Tímariti Þjóðræknisfélagsins, er hann jafnnærri því og fyrr.

---

Í þessum árgangi Tímaritsins eru dánarfregnir teknar upp að nýju. Er það gert í því skyni að koma að nokkru leyti til móts við óskir ýmissa þeirra fulltrúa, sem sóttu síðasta þjóðræknisþing og annarra lesenda, sem töldu að þessir þættir mættu alls ekki niður falla. Eins og á undanförnum árum. hefir dr. Richard Beck annazt samantekt þáttarins, og nær skýrsla hans nú til tveggja ára.

**Ritstj.**

MAGNÚS ELÍASSON:

# Sunnybrook nýlendan í British Columbia

### Síðasta landnám Íslendinga í Vesturheimi

Íslenzka nýlendan í British Columbia, sem kölluð var Sunnybrook, var á spildu (township) 77 og að mestu leyti á svæði (range) 17 fyrir vestan sjötta hádegisbaug. Nokkur hluti þessarar nýlendu náði þó vestur á svæði (range) 18. Byggð sú, sem hér verður lýst, er í hinu svokallaða Friðarárhéraði (Peace River Block), en það hérað er 66 mílur á kant og liggur að austurmörkum British Columbia fylkis. Voru náttúruauðæfi öll í þessum hluta landsins eign sambandsstjórnarinnar kanadísku þangað til 1. okt. 1930, að þau urðu fylkisins eign samkvæmt sérstökum samningi, sem þá var gerður í sambandi við járnbrautarlagningu inn í þann hluta fylkisins, sem hér um ræðir.

Sunnybrook nýlendan er röskar 450 mílur norður af Bandaríkjalínunni, um 40 mílur fyrir sunnan Friðarána (Peace River) og vestanvert við 'Cutbank' ána. Rennur 'Cutbank' áin úr suðvestri og fellur í Friðarána (Peace River) vestarlega í Albertafylki. Á þessum slóðum er land nokkuð öldótt, og renna um það lækir úr vestri eða suðvestri og sameinast 'Cutbank' ánni. Meðfram þessum lækjum hafa myndazt alldjúpir dalir, en dalina skilja þónokkuð háir hálsar. Jarðvegur er betri í dölunum en upp á hálsunum, en í dölunum er meiri hætta á sumarfrostum, því kalda loftið leitar niður í lægðirnar.

Fyrstu mennirnir, sem slógu eign sinni á heimilisréttarlönd þarna vestur frá, voru þeir Óli Jóhannsson og feðgarnir Ásbjörn og Franklín Pálsson. Mun það hafa verið sumarið 1929, og settust þeir að í þessari nýju byggð um haustið. Höfðu þeir víst staðnæmzt í íslenzku byggðinni milli Clairmont og Sexsmith í Alberta rétt um 100 mílur fyrir austan Sunnybrook, en þar var auðvitað engin heimilisréttarlönd að fá, svo haldið var lengra út á þau lönd, sem þá voru útkjálkar.

Hér á eftir fara nöfn þeirra, sem festu sér lönd eða komu við sögu í Sunnybrook. Einnig eru hér til fróðleiks skráð spildu- og svæðisnúmer (þ. e. 'township' og 'range') á hverri jörð um sig. Númerin eru hér tilgreind með hinum hefðbundnu skammstöfunum enskunnar um þessi fyrirbæri.

Óli Ó. Jóhannsson átti heima að N.E. S. 22,R. 17. Óli ólst upp í Norður Dakóta og hafði verið um þónokkurt skeið kaupmaður í Elfros í Saskatchewan. Hann var maður vel lesinn og ágætlega hagmæltur. Ráða hans var oft leitað af byggðarbúum, bæði íslenzkum og hérlendum. Óli lézt að heimili sonar síns, Kenneth, í New York ríki árið 1943.

Heimilisréttarland Ásbjarnar Pálssonar var að S.E. S. 22, R. 17. Ásbjörn var alinn upp í Geysisbyggð í Nýja Íslandi, en var í mörg ár apótekari í Elfros, Saskatchewan.

Kona Ásbjarnar, Bergrós, lifir mann sinn. Hún er ættuð úr Víðirbyggð í Nýja Íslandi. Börn þeirra hjóna voru fimm talsins: Pálína í Edmonton, Franklín, sem síðar verður getið, Óskar háskólakennari vestur við haf, Victor og Norma. Victor féll í síðari heimstyrjöldinni á Sikiley. Heimili þeirra Ásbjarnar og Bergrósar var þekkt fyrir gestrisni, enda áttu þar margir leið fram hjá eftir hinni svokölluðu Dalabraut, sem lá eftir 'Cutbank' dalnum. Bergrós er hjúkrunarkona, og þeir voru ófáir byggðarbúarnir, sem hún liðsinnti, þegar veikindi voru annars vegar. Stundum fór hún gangandi í sjúkravitjanir, þegar ekki var um annað að ræða, og fljót þótti hún í ferðum, þegar á lá. Bergrós á nú heima í bænum Dawson Creek nærri 20 mílur austan við gömlu nýlenduna.

Franklín Pálsson, sonur Bergrósar og Ásbjarnar, reisti bú á S.W. 22, R. 17. Hann varð síðar aðstoðarframkvæmdastjóri kaupfélagsverzlunarinnar í Dawson Creek, og á hann þar nú heima.

Bróðir Franklíns, Victor, sem áður er sagt, að hafi fallið í heimstyrjöldinni síðari, átti heima að S.E.S. 21, R. 17.

Heimili Ingu Einarsson var að N. W. S. 22, R. 17. Inga var kona Kristmundar Einarssonar, sem brátt verður getið, og dóttir Hjartar og Guðrúnar Bjarnason, sem næst eru talin í þessari skrá. Inga var fædd í Norður Dakóta, en ólst að mestu leyti upp í grennd við Wynyard í Saskatchewan. Hún lifir mann sinn, og á hún nú heima í Vancouver í British Columbia. Man ég eftir mörgum kaffibollanum, sem ég þáði hjá þeim Ingu og Kristmundi.

Hjörtur Bjarnason átti sér bújörð að N.W. S. 15, R. 17. Fæddur var hann á Bjarnastöðum í Árnesbyggð í Nýja Íslandi, en fluttist ungur til Norður Dakóta og ólst þar upp. Skömmu eftir aldamótin hafði hann flutt sig til Wynyard í Saskatchewan og bjó þar, þangað til hann fór búferlum til Sunnybrook árið 1930. Kona Hjartar var Guðrún, og hafði hún alizt upp í Norður Dakóta. Börn þeirra á lífi eru fjögur. Ingu dóttur þeirra er áður getið. Þá eru Kapitóla, kona Ottós Bjarnasonar í Vancouver, og Helga og Fríða. Verður tveggja hinna síðastnefndu getið síðar. Gaman var að heimsækja Hjört og Gunnu og rabba við þau um margvísleg mál. Hjörtur var smiður og lagði mikla alúð við að byggja geirnegld bjálkahús. Smíðaði hann sér hefil mikinn til að hefla bjálkatimbrin, sérstaklega til að gera bjálkaveggina slétta að innanverðu. Nú eru þau Hjörtur og Guðrún bæði látin. Síðustu árum ævinnar eyddu þau í Vancouverborg.

Konráð Erickson átti heima að N.E. S. 11, R. 17 og einnig að N.W.S. 13, R. 17. Hann var fæddur og uppalinn í Norður Dakóta, en hafði átt heima í nokkur ár í grennd við Leslie í Saskatchewan. Konráð bjó á jörðum sínum til dauðadags árið 1966. Þegar tækifæri gafst, var hann reiðubúinn að ræða ýmis alvarleg málefni. Konráð fór víða um byggð sína, og ferðaðist þá á hjólhesti. Ferðalögum þessum hélt hann áfram fram að áttræðisaldri. Hann átti líklega lengur heima í Sunnybrook en nokkur annar Íslendingur.

Gunnlaugur Björnsson byggði á

N.E.S. 21,R.17. Hann var fæddur á Íslandi, en hafði búið í mörg ár nálægt Leslie í Saskatchewan. Gunnlaugur var góður brikkleggjari, og byggði hann margan strompinn á landnámsárunum þarna vesturfrá. Kona Gunnlaugs hét Kristín, en ekki er ég viss um, hvar hún var fædd eða hvar hún ólst upp. Börn þeirra Gunnlaugs og Kristínar eru sjö: Jónbjörn, sem síðar verður getið, Bergvin bóndi í grennd við 'Spirit River' í Alberta, Jódís, Karl, Alvin, Lóa og Linda. Móðir Kristínar, Albína Jóelsson, dvaldist hjá dóttur sinni síðustu árin, sem hún lifði. Lá leið mín oft um garð hjá þeim Björnsson hjónum, og gleymi ég seint skyrinu, slátrinu, mysuostinum og fleiru góðgæti, sem þar var á borðum. Gunnlaugur og Kristín eru nú bæði dáin fyrir nokkrum árum.

Elzti sonur þeirra Gunnlaugs og Kristínar, Jónbjörn, átti heima að S.E S. 28,R.17. Jónbjörn gekk í herinn í síðari heimstyrjöldinni. Hann er nú bóndi fyrir norðan Fort St. John, sem er bær fyrir norðan Friðarána (Peace River).

Jón Ólafsson bjó að S.E.S. 29,R.17 og mun hafa komið frá Selkirk. Jón ílentist ekki í byggðinni.

Bær Sveins Þorsteins Sveinssonar var að S.E.S. 20,R.17. Sveinn var frá Árnesbyggð í Nýja Íslandi og hálfbróðir þeirra Elíasson bræðra, sem næst verða taldir. Hann fór til baka til Nýja Íslands eftir minna en árs dvöl í Sunnybrook og á nú heima í grennd við Árnes.

Þá fara hér á eftir nöfn þriggja bræðra:

Frank Elíasson átti heima að N.W.S.21, R.17. Hann var frá Árnesbyggð í Nýja Íslandi. Frank er nú matreiðslumaður vestur við haf.

Helgi Elíasson bjó að S.W.20, R.17. Hann vinnur nú við vöruafgreiðslu vestur í Vancouver.

Magnús Elíasson átti sér heimili að S.E.S. 19,R.17. Hann á nú heima í Winnipeg og er útbreiðslumaður fyrir flokk Ný-demókrata í Manitoba.

Guðmundur Elíasson, faðir þeirra Elíasson bræðra, bjó að S.W.S. 19, R.17. Guðmundur var fæddur á Íslandi í Görðum undir Jökli. Hann var bóndi í Norður Dakóta og síðar á Laufhóli í Árnesbyggð í Nýja Íslandi. Guðmundur átti ekki langa viðdvöl í byggðinni. Hann hvarf til baka til Nýja Íslands, átti heima í Vancouver síðustu níu ár ævinnar og dó þar 4. marz 1953.

Aðalgeir Goodman tók við heimilisréttar landi Guðmundar Elíassonar, þegar hinn síðarnefndi hvarf úr byggðinni. Aðalgeir var fæddur heima á Íslandi. Hafði átt heima nokkur ár í Geysirbyggð í Nýja Íslandi og stundað síðar landbúnað nálægt Elfros í Saskatchewan. Eftir að Aðalgeir hætti búskap í Sunnybrook, annaðist hann sölu á byggingarefni í Dawson Creek. Hann er nú dáinn fyrir nokkrum árum.

Kristmundur Einarsson bjó að N.E.S. 19.R.17. Konu hans Ingu Einarsson er áður getið. Kristmundur var fæddur og uppalinn í Vatnabyggðunum í Saskatchewan. Hann gegndi herþjónustu í síðari heimstyrjöldinni, og er nú dáinn fyrir nokkrum árum.

Heimili Magnúsar Bjarnasonar var að N.E.S.7, R.17. Hann var maður Helgu, dóttur Hjartar Bjarnasonar, þess sem fyrr er um getið. Magnús mun hafa alizt upp í grennd við Lundar í Manitóba, en bjó síðar nálægt Wynyard í Saskatchewan. Voru þau Magnús og Helga hupp-leg heim að sækja. Þau dveljast nú vestur við haf. Magnús var maður söngelskur og spilaði oft fyrir dansleikjum í Sunnybrook og öðrum samkomuhúsum.

Fríða Fredericks, systir Magnúsar, bjó með manni sínum Carl Fredericks að S.W.S. 21, R.17. Fríða hafði alizt upp í grennd við Wynyard. Þau hjónin fluttu burt úr byggðinni á stríðsárunum.

Höskuldur Einarsson bjó að S.W.S. 23, R.18. Hann var fæddur og uppalinn í Tantallon í Saskatchewan og hafði gegnt herþjónustu í fyrri heimstyrjöldinni. Höskuldur stundaði veiðar á svæðinu suðvestur frá Sunnybrook upp um hjallana, sem liggja að Klettafjöllunum. Þar heppnaðist honum að skjóta hið stærsta 'fjallaljón', sem þar hafði sézt. Var dýr þetta níu fet frá rófuenda og fram á nef. Höskuldur bjó á landi sínu þar til hann andaðist fyrir um það bil 10 árum.

Sveinbjörn Guðmundsson nam land á svæði (range) 18, en ekki er ég viss um hvar; þó mun það hafa verið á ræmu (section) 14. Sveinn, eins og hann var kallaður, var þá orðinn gamall maður og leizt því ekki á að setjast að í nýrri byggð. Varð því ekkert meira úr landnámi hans. Sveinn ólst upp í Norður Dakóta, en hafði átt heima um þónokkurt skeið í Edmonton. Síðar átti hann heima við Campbell River úti á Vancouver eyju, og þaðan fluttist hann að Höfn í Vancouver og dó þar árið 1952.

Þegar Íslendingar komu fyrst til Sunnybrook, var næsta járnbraut í Hythe í Alberta, þ. e. um sjötíu mílur til austurs frá nýlendunni. Rúmu ári síðar var þó járnbraut lögð til Dawson Creek, og kom fyrsta farþegalestin þangað 15. janúar 1931. Var nú járnbrautin aðeins í 20 mílna fjarlægð frá Sunnybrook. Nú er hún aðeins í tíu mílna fjarlægð, og liggur þessi braut beint vestur að hafi. Dawson Creek var áður fyrri aðeins lítið þorp um tvær mílur vegar frá þeim stað, þar sem borgin stendur nú. Járnbrautin fylgdi vitaskuld Dawson dalnum og náði því aldrei alla leið til þorpsins. Voru flestar byggingar úr þorpinu fluttar með köðlum og vindum á nýja bæjarstæðið. Nú er Dawson Creek orðin borg með um það bil 15 þúsund íbúum. Þar eru suðurmörk Alaskabrautarinnar, og er því borgin oft nefnd á ensku "Mile Zero City."

Þó að aðeins helmingur byggðarbúa væru íslenzkir, þá var Sunnybrook nýlendan engu að síður þekkt á stóru svæði sem íslenzk byggð. Fólk í öðrum byggðum talaði um gestrisnina í þessari byggð og kallaði það Sunnybrook gestrisni. Landarnir reistu yfirleitt myndarleg heimili, og skólahús byggðarinnar, sem byggt var úr bjálkum, bar af öðrum húsum sömu tegundar á stóru svæði. Íslendingar reistu snemma þakspónaverksmiðju, svo að bæði torfþökin og borðviðar-

þökin, sem verið höfðu á húsum, hurfu snemma úr sögunni.

Sunnybrook byggðin átti sitt blómaskeið fyrsta áratuginn eftir að hún var stofnuð eða þangað til heimstyrjöldin síðari skall á árið 1939. Þó átti fólkið þar oft erfitt á kreppuárunum, og voru sumir byggðarbúa, einkum þeir sem einhleypir voru, farnir að tínast burtu síðustu árin fyrir styrjöldina. Þegar styrjöldin brauzt út, og nýir atvinnuvegir með nýjum tækifærum sköpuðust, fór fólki óðum að fækka í Sunnybrook, og þegar tekið var að byggja bílveginn til Alaska, fluttust flestir Íslendinganna burt af þessum slóðum, því mikil ekla var á verkamönnum, og atvinnumöguleikar mjög góðir. Lagðist því byggðin mikið til í eyði, því að Íslendingarnir komu ekki til baka, þegar styrjöldinni lauk og atvinnuhrotan, sem hafði hrifið þá að heiman, var á enda.

Íslendingar tóku drjúgan þátt í málum byggðar sinnar og öðrum þeim málum, sem vörðuðu stærri landshluta. Þeir störfuðu að skólamálum. Innan bændasamtakanna í British Columbia (British Columbia Farmers Institute) létu þeir til sín taka, og störfuðu einnig að kynbótum nautgripa í byggð sinni. Í stjórnmálunum létu þeir og töluvert til sín heyra. Einn Íslendinganna frá Sunnybrook talaði á pólitískum fundum víðsvegar, þegar 'Peace River' héraðið varð nýtt kjördæmi í British Columbia. Er sagt, að hann hafi orðið fyrstur manna til að flytja pólitískar ræður á sumum stöðum þar í kjördæminu. Fór hann oft byggða á milli fótgangandi eða á hestbaki.

Eins og nú er komið, munu einu Íslendingarnir, sem enn eiga bújarðir í Sunnybrook byggðinni vera þeir Franklín Pálsson og Magnús Elíasson, þó að ekki búi þeir á þeim jörðum.

Margt fleira mætti skrifa um landnámið í Sunnybrook. Marga svaðilförina fóru Íslendingar þar vestra, og bar þá stundum við, að frostið færi niður í 60 gráður fyrir neðan núll á Farenheit. Margt var og til fróðleiks og skemmtunar á mannfundum, og þær voru ófáar tækifærisvísurnar, sem til urðu í Sunnybrook. Sérstakir Íslendingadagar voru hátíðlegir haldnir fyrstu tvö árin eftir að byggðin var stofnuð. Einn landinn frá Sunnybrook lenti einu sinni í kappræðu við hina víðþekktu blaðakonu norðvesturlandsins, "Ma Murray", og var víst gaman að hlusta á. Íslendingar tóku og talsverðan þátt í byggingu Alaska bílvegarins, og þótt fáir landar séu eftir þarna norðvesturfrá, er fjarri því, að nöfn þeirra séu í gleymsku fallin.

**Eftirmáli ritstjóra.**

Það er ekki langt síðan Magnús Elíasson fyrrum bónda í Sunnybrook rak upp á mínar fjörur. Það heyrði ég fyrst á Magnúsi, að ekki hefir íslenzkunni hrakað hér í Vesturheimi við tilkomu Sunnybrook byggðarinnar.

Magnús Elíasson er ekki gamall maður. Í rauninni er hann fulltrúi hinna yngri Vestur-Íslendinga, og þó kann hann Númarímur og ógrynnin öll af öðrum kveðskap utanbókar. Það mun hafa verið Magnús sjálfur, sem lenti í kappræðum þeim, sem getið er í lok greinar hans. Hann hefir um langt skeið tekið mjög virkan þátt í stjórnmálum, og er þaulreyndur á ræðupalli. Á þeim vettvangi hefir hann vitaskuld notað enskuna. Hann er þó síður en svo einskorðaður við þá tungu, eins og grein hans hér að framan sýnir gleggst. **H. B.**

RICHARD BECK:

# Ljóðaleiftur

## SÓLRIS

Dögun gleður döggvot blóm,
dýrðarskrúða jörðu klæðir;
fuglar syngja sætum róm,
sólris vonir nýjar glæðir·

## SÓLSETUR

Dökkva slær á djúpin blá,
dagar sumars líða.
Kvöldsól fjalla kyssir brá,
kinnar roðna hlíða.

## HEIRÆÐI

Munum, harms er höndin köld
hjartað nístir ótta:
Morguns alltaf máttarvöld
myrkrið reka á flótta.

## LÍFMAGN LJÓÐSINS

Yrking hvessir andans sverð,
— elur glóð í barmi.
Lífs var blessun ljóðagerð
lands vors þjóð í harmi.

## ÞÓ HALLI DEGI

Hrynja lauf af lífsins tré,
líður dagur hausts að kveldi,
en morguns geislagull ég sé
glitra í aftanroðans veldi.

GÍSLI JÓNSSON:

# Ýmisleg sjónarmið

Fyrir mörgum árum hafði ég með höndum mánaðar eða hálfsmánaðar rit um bókmenntir og fagrar listir, sem ég hefi gleymt nafninu á. En það var víst of gott fyrir allan þorra almennings, og lognaðist því brátt útaf. Í hverju hefti var ein síða eða svo, sem gekk undir nafninu „Point of View". Mætti líklega kalla það á íslenzku „Ýmisleg sjónarmið", því þar voru rædd málefni og menn frá ýmsum hliðum. Minnti nafnið mig á Alþingisvísurnar um og eftir síðustu aldamót, sem nefndar voru „Frá almennu sjónarmiði." En tilefni þeirra var, að einn þingmaðurinn hélt víst aldrei svo ræðu í þingsalnum, að hann ekki viðhefði orðatiltækið „frá almennu sjónarmiði." Út af þessu varð svo til heill flokkur vísna um allt sem fram fór í þinginu. — Margar vísurnar allpersónulegt eðlis. Man ég hér eina í svipinn, sem sýnir andann:

Doktor forni halaháll,
hlykkjóttur í sniði,
í landssjóð smýgur eins og áll
frá almennu sjónarmiði.

Allar vísurnar enduðu á þessari sömu ljóðlínu.

Ekki veit ég hvort það er sæmilegt eða viðeigandi að níðast á þessu riti með staksteinum frá ýmsum tímum, sem ég hefi stungið tánum í á lífsleiðinni, en samt ætla ég nú að láta það flakka.

1.

Um dagin, þegar ég var að skila af mér bókunum mínum fyrir fullt og allt, varð mér á að fletta hinni stóru og merkilegu bókmenntasögu Íslendinga eftir Dr. Stefán Einarsson. Að vísu hafði ég lesið hana áður spjaldanna á milli, en nú varð mér það ljósara, að rauði þráðurinn er sá, að ekkert sé svo frumlegt í ræðu eða riti, að það eigi sér ekki eldri uppruna eða fyrirmynd. Reyndar er þetta ekki ný skoðun. Jafnvel Salómon hélt þessu fram fyrir þrjú þúsund árum, og Þorsteinn Erlingsson, á vorum tímum, í hinu meistaralega kvæði sínu, um samhengi íslenzkra ljóða, er hann nefndi Aldaslag. Og svo er um marga fleiri. Að sumu leyti er þetta fróandi, að ekkert fari alveg forgörðum af hugsjónum mannsandans, en samt reisir sig sama spurningin upp aftur og aftur í huga manns: Ef allt, sem við vitum og skynjum, er eilíft áframhald þess, er áður var, hvar er þá hið óumflýjanlega upphaf? Hver spann þráðinn fyrir hundrað þúsundum ára, sem rennur í gegnum kvæðin okkar, sem ort eru í dag?

2.

Í gömlu tímariti rakst ég á sjálfsævisögu gamals íslenzks bónda, sem ég þekkti lítillega fyrir um það bil 70 árum. Þetta var mesti sómakarl, sem bjó lengi góðu búi og hjálpaði eflaust nágrönnum sínum eftir

beztu getu, og var vel liðinn í sveit sinni.

Sagan er vel og hispurslaust sögð af einfeldni hjartans, og því varð það kannske, að ég hnaut ónotalega þar um eina málsgrein. Hann lýsir sveitinni, búskapnum, heilsufarinu, veikindum, sem komu og fóru, er leiddu til þess að sum börnin dóu og svo síðarmeir konan. Svo kom harðindaár, heyfengur lítill að sumri og langur snjóavetur næst. Flestir bændur höfðu „sett á guð og gaddinn", eins og komizt var oft að orði. Þegar loks voraði hafði búfé flestra fallið unnvörpum úr hor og hungri. „Ég var sá eini í sveitinni, sem var svo lánsamur að fella enga skepnu úr hor, enda hefi ég verið **lánsmaður alla ævi.**"

Þetta snerti mig hálfilla. Það gerði svo sem minnst til, þótt börnin og konan dæju. Hann var **lánsmaður** af því að rollurnar hans sluppu við að horfalla.

3.

Önnur ævisaga. En í þetta sinn skrifuð af einum merkasta fræðimanni landsins. Hún er um einn herlega stórgáfaðan prest, sem lét mikið til sín taka andlega og veraldlega og skynjaði og skildi alla hluti milli himins og jarðar, nema ef til vill mannlegar tilfinningar. Hann var kvæntur veikgeðja konu, eða eins líklega, konan varð veikluð á sál og líkama í sambúðinni við þessa hamhleypu, því á hennar herðum hvíldi stjórn stórs og erilsams heimilis, auk þess sem hún ól honum 14, eða guð má vita hve mörg börn. Heilsu hennar hnignaði unz presturinn, eins og söguhöfundur kemst að orði, **neyddist** til að fá fullan skilnað, — svo hann gæti, ef að líkum lætur, fengið sér aðra konu, „sem meira til frambúðar var," eins og Hákon forðum undir stjórn Jörundar hundadaga kóngs, sem Þorsteinn kvað um.

Hver **neyddi** prestinn til að kasta gömlu konunni út á öskuhauginn, ef ekki kvensemin? Solveig gamla á Háreksstöðum hafði annað að mun ákveðnara svar undir svipuðum kringumstæðum. En líklega má ekki prenta svo óþvegna hreinskilni.

4,

Snemma á þessari öld byrjaði Oliver Ditson músík forlagið í New York að gefa út vandaða útgáfu af úrvals söngvum eftir heimsmeistarana. Voru sum heftin safnrit, svo sem tvö hefti af frönskum söngvum, önnur tvö af Norðurlanda söngvum, fjögur úrvals hefti af óperusöngvum og frv. En flest voru heftin eftir einstök tónskáld, svo sem Schubert Shuman, Grieg Wolfe, Mendelson o. s. frv. Voru til þess valdir fróðustu sögukennarar, söngmenn og músíkmeistarar. Einn af merkustu og margfróðustu tónfræðimanna Breta safnaði 100 þjóðlögum allra landa, sem hann taldi þau beztu. Ég náði í þessa bók og hélt að ég hefði himin höndum tekið. En hún varð mér vonbrigði. Ég þekkti fjölda laganna og fannst þau ekki ávallt af betri endanum og svo virtist þekkingin ekki alltaf óskeikul. Til dæmis sagði hann, að Ísland ætti aðeins sex þjóðlög og prentaði hann tvö þeirra — Tólf sona kvæði og eitt annað. Þessar upplýsingar hans

voru byggðar á 100 ára frásögn, líklega frá Weyse hinum danska, sem einna fyrstur reyndi að safna lögum frá Íslandi og birti að sögn eitt, sem Páll Melsted söng fyrir hann. Að minnsta kosti tíu árum áður en Bantock safnaði í þessa bók, hafði þjóðlagasafn séra Bjarna Þorsteinssonar verið prentað, og var því þessi fáfræði lítt afsakanleg. Eins og þetta stórmerkilega safn ber með sér, skipta lögin, sem þar eru nótusett mörgum hundruðum. Langflest eru að vísu rímnalögin, og þau hefir Bantock ef til vill ekki talið þess virði að nefna. En auk þeirra eru samt mörg vikivakalög, tvísöngslög og vanaleg sönglög auk kirkjusöngva (Þorlákstíðir) sem hvergi finnast annarsstaðar. Um uppruna sumra þessara þjóðlaga hefir náttúrlega verið þráttað fram og aftur; en þótt sum kunni að bera á sér útlendan hreim, þá er það ekkert undarlegra en ljóðagjörðin sem oft er staglazt á, að sé af útlendri fyrirmynd. Séra Bjarna var þetta ljóst, en hann hikar ekki við að kalla það íslenzk þjóðlög, sem hvergi, honum vitanlega, voru annarsstaðar sungin en á Íslandi. Þetta varð samt til þess, að hann varð of auðtrúa, blessaður karlinn. Læknir einn í Húnaþingi eða Skagarfirði sendir honum lag á nótum, sem hann sagðist syngja við hestavísu og telur hiklaust íslenzkt rímnalag. Mér fannst eitthvað kunnuglegt við nóturnar og fór að raula það eftir bókinni, og fann þá, að nótu fyrir nótu var þetta enskt húsgangslag við langa raunarollu, sem heitir Clementine. Kvæðishöfundur er í ástum við stúlkuna, sem gengur á Nr 9 skóm. (**nine** rímar við **tine** í enda nafnsins). En eftir margar vísur deyr svo stúlkan og er skáldið mjög leitt yfir því (dreadful sorry, Clementine). Bjarna grunar ekkert um þetta lag, en á einum eða tveimur öðrum stöðum er hann ekki alveg ugglaus um upprunann.

5.

Oft heyrir maður talað um stefnur og strauma í skáldskap. Stundum verða stefnurnar nokkuð krókóttar og straumarnir líkari hringiðu. Einar Ben og St. G. byrjuðu í drembilæti og sérvizku, en þeir uxu svo fljótt upp yfir sjálfa sig og allan þyrking og stolt, að allt slíkt gleymdist eða var talið þeim til hróss. Gömlu og yngri lýrisku skáldin áttu því um tíma ekki uppá pallborðið. Nú er svo komið, síðan Davíð dó og Tómas þagnaði, að enginn, sýnist standa öðrum hærra á föðurlandinu, nema ef telja skyldi rímleysingjana (atómskáldin), sem þó virðast flest deyja jafn óðum og þau fæðast.

En þetta reis allt útaf gömlu bréfi frá kærum fornvini, sem kannske hefir skrifað það til að stríða mér. Bréfið var víst skrifað ekki löngu eftir að þeir Stefán frá Hvítadal, Davíð Stefánsson, Örn Arnar og einhverjir fleiri, sem þagnað hafa síðan, voru að ryðja sér til rúms. Seinna í bréfinu stendur: Nú eru til dæmis Hannes Hafstein og Þorsteinn Erlingsson ekki lengur taldir stórskáld. Þorsteinn er helzt þekktur fyrir haglega rímaðar hringhendur. Þeir ruddu enga nýja braut.

Svarið var eitthvað á þessa leið: Hver er svo þessi nýja braut? Gæti nokkur af þessum nýju gæðingum

hafa ort kvæði sem enn geti jafnazt á við Aldamótakvæði Hannesar, svo fleira sé ekki nefnt, svo sem hið bjarta og breiða útiloft í æskukvæðum hans. Hver mundi hafa djörfung og frumleika í hugsun til að yrkja ámóta kvæði og Örlög guðanna, Vestmenn og Skilmálana, sem öll voru kveðin á líkum aldri og þessir snillingar þínir, og svo síðar Jörund, Eden og Aldaslag, svo öllum lýrisku ljóðum Þorsteins sé sleppt?

6.

Er íslenzkan á útleið? spurði einhver án þess að búast við svari. Hann var ekki að tala um íslenzkuna hér vestan hafs. Nei hann var að tala um málið í heimalandinu. Málvöndunarmenn kvarta undan, að málinu sé þar að hrakfara aftur — einkum í dagblöðunum. En það var ekki ástæðan. Ástæðan var sú, að hann hélt á tveimur tímaritum sem gefin eru út á Íslandi, bæði á ensku. Það eldra Iceland Review, er vandað að öllum ytra frágangi, og vel læsilegt. Það er nú víst þriggja ára eða betur og vinnur að landkynningu og viðskiptamálum. Svo hljóp annað af stokkunum rétt nýskeð með því fáránlega nafni 65° — sextugasta og fimmta breiddargráðan, sem mun liggja yfir landið um eða nálægt Reykjavík. Sýnist það helzt eiga að fjalla um mannfræðileg efni, lifnaðarhætti, framhjátökur og lausaleiks börn. Einhver Íslendingur var svo stálheppinn eða óheppinn, að kvongast enskumælandi stúlku, sem unir því ekki að sitja auðum höndum og læra íslenzku, og af því, varð 65° gráðan til.

Til eru menn, sem hræðast það, að enskan sé að leggja undir sig heiminn, og á Íslandi dvelja óneitanlega allt of margir enskumælandi menn í hlutfalli við landslýðinn. Einhver sagði, að meiri enska heyrðist nú á strætum stórborganna í Noregi en norska, og kann það að stafa af því, að Norðmaðurinn sé að leitast við að kasta af sér danska okinu. Mjór er mikils vísir, segir gamall málsháttur, og kannske eru þessi rit fyrsti fleygurinn, sem verið er að hamra inn í íslenzkt þjóðerni. Þegar ég var á förum frá Íslandi endur fyrir löngu, sagði vinur minn, sem lengi hafði búið meðal enskumælandi þjóða: Réttu aldrei litla fingurinn að enskinum, því að þá tekur hann alla höndina. Ef til vill er einhver mórall í þessu. En á hinn bóginn látum oss minnast þess, að fyrsta tilraun til fréttablaðs á Íslandi var á dönsku. Danskurinn réði þá lögum og lofum í landinu, en samt lognaðist blaðið útaf og hefir aldrei stungið upp kollinum síðan.

HRUND SKÚLASON:

# Dagbókarbrot

**Eftir**

**Pál Sigurgeirsson Bárdal**

Á hundrað ára afmæli Kanada sem nýlega er um garð gengið, hafa allir lagt alúð við gamla tímann og rifjað upp margt frá fyrstu árum hér í Vesturlandinu.

Um daginn heimsótti ég vinkonu mína frú Ólafíu Finnbogason. Talið snerist að liðinni tíð, og kom þá í ljós. að frú Ólafía hafði dagbók föður síns, Páls Sigurgeirssonar Bárdals, en sú bók var skráð á árunum 1879-1882. Ólafía varð góðfúslega við þeim tilmælum að ljá mér bókina, en lét þess þó getið, að lítið markvert mundi vera þar í, því að meiri hluti bókar sýndist vera um veðrið.

Satt er það, að á degi hverjum minnist höfundur á veðrið, en lífið á árum þeim, sem ofangreind dagbók lýsir var tilbreytingarlítið og veðrið réði miklu um líðan og athafnir einstaklingsins.

Páll S. Bárdal var fæddur að Grímsstöðum við Mývatn, 10. september 1853, sonur Sigurgeirs Pálssonar og Vigdísar Halldórsdóttur. Hann fluttist til Ameríku árið 1879 og settist að í Minneota héraðinu í Minnesota, en flutti síðan til Winnipeg og bjó þar til æviloka. Þann 14. nóv. 1885 kvæntist Páll Halldóru dóttur Björns Péturssonar og Ólafíu Ólafsdóttur. Hún fluttist með foreldrum sínum frá Íslandi til Sandy Bar í Nýja Íslandi árið 1876, og síðar til Dakóta og Winnipeg.

Heimili Páls og Halldóru var annálað fyrir gestrisni og hjálpsemi, sérstaklega í garð þeirra, er nýkomnir voru að heiman.

Dagbók Páls lætur lítið yfir sér; hún er ekki skrá um afreksverk ritarans, en hún sýnir manninn, sem mótaðist í skóla lífsins, og þroskaðist við reynsluna og varð, þegar fram liðu stundir, athafna- og atorkumaður meðal Íslendinga í Winnipeg.

Dagbók Páls Sigurgeirssonar frá Víðidalstungu, byrjar 14. ágúst 1879, er hann fer frá Íslandi. Ekki minnist hann neitt á ástæður fyrir brottförinni eða framtíðarmarkmið, en honum farast svo orð:

„Kl. 7 um kvöldið gekk ég um borð á hestaskipið „Camoens“, þá var þykkt loft og hægur austan vindur. Þetta kveld var ég heldur í þungu skapi.

15. ág. kl. 7 um morguninn var skipið komið austur fyrir Langanes. Bjart veður og sá til sólar fyrripart dags, en þoka seinni partinn. Suðaustan kuldastormur og sjógangur töluverður. Ég með sjósótt. Á þessum degi sá ég seinast hina hátignarlegu og mér kæru Íslands jökla.

16. ág. Suðaustan stormur, kuldi, þoka, sá aldrei sól. Ég með sjósótt, byrjaði bréf til pabba.

17. ág. Sólskin og blíðviðri. Sigldum suður með Skotlandi að austan verðu allan daginn. Skipið tók tvisvar niður kl. 6 f. h. og lá við að

því bærist á. Skotland var mjög óslétt tilsýndar, eigi ólíkt gamla Íslandi, ég sá samt, að þar voru meiri mannvirki.

18. ág. Gott og hlýtt veður en eigi sólskin. Ég kom til Granton kl. 6 f. h. Tollheimtumaður kom um borð og tók nokkuð af tóbakinu mínu. Ég hafði nærri 5. pd., en hann sagði að ég yrði að borga 24 kr. í toll af því, en sagði að ég mætti hafa ½ pd. tolllaust. Ég var að við hann, þangað til hann lét mig halda 3. pd., en hitt tók hann.

19. ág. Granton er eigi mjög fagur staður. Ég fór kl. 12. á hádegi með vagnalest frá Granton til Edinborgar. Aðeins hálftíma stanz þar. Edinborg er mjög fögur borg. Komum til Glagow kl. 2.30. Fór til Mr. Allan til Hotel Ansor. Þar voru margir Svíar og Norðmenn.

20. ág. Dimmviðri og rigning öðruhvoru. Ég skoðaði mig dálítið um í Glasgow. Það er reyndar bæði stór og skrautlegur staður. Þaðan fór ég um borð á Allanlínu skipið Waldensian kl. 12, á hádegi. Allir enskir á skipinu, flestir farþegar drukknir, og ég heldur í þungu skapi.

21. ág. Veður bjart og gott, hægur suðvestan vindur. Margir með sjósótt, einkum kvennþjóðin, ég eigi með öllu frí. Þá byrjaði ég að rita ensku en það var ekki neitt, sem þýddi. Tómas félagi minn reyndi mikið að tala ensku við mig. Það var góðmannlegur maður mikið svipaður Jóni á Auðólfsstöðum. Ég varð áttavilltur á Skotlandi og eftir það á allri ferðinni.

22. ág. Sólskin, norðanvindur. Allt tíðindalaust. Ég við beztu heilsu og með framúrskarandi matarlyst!!!

23. ág. Norðan kuldastormur; gjörði dynjandi skúr um kveldið; ég hef aldrei séð annað eins. Tíðindalaust, kvennþjóðin farin að líta til mín hýru auga, mér lítið um það gefið!!!

24. ág. Norðanvindur, gott veður. Mikið um dýrðir á skipinu; messað. Presturinn reifst við söfnuðinn eins og grimmur hundur. Allir sungu og þó var söngurinn eigi meiri heldur en þegar einn góður raddmaður söng heima á Fróni. Að lokinni messu kom maður með dekkaðan disk og hver maður borgaði sinn pening fyrir þessa sáluhjálp, er presturinn hafði gefið þeim, ég borgaði eitt penny, og bölvaði presti í hljóði fyrir ágirndina. Tómas félagi sagði mér, að prestur hefði gefið það fátækum og föðurlausum sjófarendum.

Næstu fjóra daga ber ekkert til tíðinda. Ferðin gengur vel nema einn dag. „... Norðanrok og kuldi; margir með sjósótt. Sigldum framhjá hárri eyju kl. 10. e. h.

29. ág. Sigldum fram með Nýja Skotlandi kl. 12. á hádegi. Það var að sjá með fjöll og dali eins og gamla landið, alþakið hrikalegum skógi, og það eins uppi á háfjöllum sem neðst í hlíðum eða dölum, byggð að sjá heldur lítil. Víðast er bratt og sumstaðar að sjá skriðuföll í sjó ofan. Þar næst kom Nýfundnaland, mjög svipað Nýja Skotlandi. Þetta kveld var heldur glatt á skipinu. Það gaf sig einn emigrantinn út fyrir að vera prestur og gaf saman í hjónaband tvær heiðurspersónur; brúðguminn var háskozkur,

heldur ófélegt grey, en hún var götudrós frá Skotlandi. Presturinn tautaði heillanga romsu yfir brúðhjónunum, og mátti þá heyra stóra hlátra. Loks tóku þau höndum saman, en það ætlaði að ganga tregt að fá þau til að brúka vinstri höndina. Þar eftir var dansað, sungið og drukkið. Að því búnu voru brúðhjónin lokuð inni í myrku herbergi um stund.

30. ág. Sólskin, vestan kuldastormur um morguninn; land á báðar hliðar. Við komum til Quebec kl. 10. e. h. í bezta veðri, mikið um dýrðir.

31. ág. Sólskin og bezta veður. Við fórum í land kl. 8. f. h. Quebec er stór bær en eigi fagur. Þar var skoðað ofan í kistur okkar emigranta. Við fórum frá Quebec kl. hálf þrjú áleiðis til Toronto. Það voru allir mjög kátir. Ég varð þá að skilja við félaga mína, sem voru með á sjóferðinni og sögðu þeir allir „Good bye“ til mín að skilnaði. Við komum um kveldið kl. 7 til Richmond og kl: 12 til Montreal.

1. sept. Héldum áfram ferðinni til Toronto í allan dag og alla nótt.

2. sept. Fórum framhjá Toronto kl. 4. f. h. og komum til Port Huron um hádegisbilið; þá var rigning af og til. Það voru margir Svíar og Norðmenn með. Þar vorum við allan daginn og lágum þar á gólfinu um nóttina í miður fínu húsi.

3. sept. Rigning mikil um morguninn. Fórum fram hjá Port Huron um hádegi og héldum áfram allan daginn. Ég var þá af og til í vondu skapi.

4. sept. Sólskin og hiti, komum til Chicago kl. hálf átta um morguninn. Það er mjög stór bær en ekki mjög fagur. Þar voru allir mjög fautalegir og þursafengnir. Það eru 1020 mílur frá Quebec til Chicago. Fórum þaðan kl. 10. f. h. og héldum áfram allan daginn og alla nóttina.

5. sept. Dynjandi rigning um morguninn en gjörði sólskin og hita seinni partinn. Ég kom til St. Paul kl. 7. f. h. Þar mátti ég bíða þangað til kl. 3:30 e. h. Komum til Kasóta kl. 8. e. h. Ég gisti þar hjá norskum múrara, átti beztu nótt en það kostaði dollar.

6. sept. Ég fór frá Kasóta kl. 8. f. h. og kom til Minneota kl. 2. e. h. Þar sá ég fyrsta Íslendinginn frá því ég fór frá Akureyri. Í Minneota var ég hjá Jóhannesi Frost frá Geitafelli í góðu yfirlæti. Þar voru flestir Íslendingar.

7. sept. Ég fór frá Minneota til Lofts fornvinar míns að Lundarbrekku. Hann og Aðalbjörg frænka mín tóku mér eins og ég hefði verið sonur þeirra. Loftur þekkti mig, en frænka mín eigi... Ég fór með Lofti til Minneota og kom við hjá Jónatan á Eiðum.. Seinni part dagsins gekk ég að Víðirhóli að horfa á þreskingu. Þann 10. sept., byrjaði ég að vinna við þreskingu hjá Guðmundi Péturssyni að Glæsivöllum. Nokkuð strangur afmælisdagur — Allir hafa 1 dollar á dag við þreskingu — Ég hjálpaði Lofti við þreskingu um morguninn en fór svo til Snorra á Högnastöðum um hádegið og var við þreskingu þar. Um kveldið gjörði rigningu, þrumur og eldingar svo að það varð all bjart eftir dagsetur.

Vann hjá Snorra fram undir hádegi en labbaði svo til Lofts og sá

þar fyrst aðferð að keyra hey og höggva maís.

— Við Loftur gengum til Sigurbjarnar, en hann var ekki heima. Ég fór til Bjössa á Stórholti og þaðan heim var þá með ólund og leiðindi.

Næstu dögum ver Páll svo í heimsóknir til nágrannanna. „... Hjó ofurlítið af korni fyrir Loft — Ég var hjá Sveinbirni að læra að plægja —. Í dag gekk ég 14 mílur og Loftur með til norsks snikkara því ég var ráðinn hjá honum mánaðar maður upp á $16.00. Mér þótti gott að koma þangað — Ég byrjaði að plægja hjá Óla Ansette. Það gekk slysalítið. Ég vann nú þann daginn fyrir ekkert, því ég var vankunnandi — Tvo fyrstu dagana plægði ég 3 ekrur og það kallast gott, þó vanir séu".

Það sem eftir er af október dvelst Páll í þessu nágrenni, fer bæ frá bæ eftir því sem vinna gefst, þresking, plægingar, maíshögg og fjósamokstur. 30. okt. Norðankuldi, ég að plægja í ergelsi fyrir 50c um daginn — 2. nóv. Norðan stormur, mikið frost. Ég fór til kirkju. Það var predikað, gefin saman hjón, skírð tvö börn og nokkrir tóku sakramentið; mér sýndist það líkt og heima. Ég var einn heima um kveldið og mjólkaði kýrnar og þótti það ekki ágangsverk! — Ég ók til Grenil (14 mílur.) — All góður bær — Grenil líkist sumum stöðum á Íslandi. Þar eru klappir og klettar, á rennur í gegn um bæinn og þar er dálítill foss —". Það sem eftir er af nóv. er Páll í vinnumensku fyrir fimmtíu cent á dag. Hann vinnur öll verk sem fyrir koma, hirðir gripi og plægir eða heggur skóg." — 3. des. Logn, snjóaði dálítið um nóttina. Fyrsta sinn sem ég sá snjó í Ameríku — Vinnan sama —".

Nú versnar tíðin og vinnu er enga að hafa. Hann er nokkra daga hjá norskum manni að bíða eftir kaupinu sínu „— Ég vinn hér lítið eitt fyrir mat", svo fer hann til landa sinna.

„— Ég fór til Sigurbjörns og verð hjá honum meðan hann er að keyra eldivið til Minneota. Aðfangadagur. Sólskin, norðanstormur og grimmdar frost. Ég fór heim til Lofts og gjörði mér góða skemmtun um kveldið með samræðum við hann.

Jóladagur. Norðan hríðar veður. Ég fór til Eiríks á Hólum og var þar til kl. þrjú um nóttina. Þar var dansað, drukkið og sungið. Ég spilaði á fiðluna mína. Skemmtunin var all góð. — Fór í kveld til Sigurbjörns og vakti alla nóttina við að spila vist — og höfðu ýmsir betur". Fyrsti janúar 1880 rennur upp með sólskini og þíðu og fyrsta vikan er mild og góð. Páll notar tímann til að heimsækja og ræða við landa sína og leita sér að jarðnæði. Um miðjan janúar fer hann að læra. „— Fór til Snorra og byrjaði að lesa ensku.... Ég að læra og gekk seint — Ég að læra með sveittan skallann.... Allur skólinn með sveittan skalla."

Hann sækir skólann til 5. marz og fer þá aftur til Lofts. Lífið virðist hafa verið tilbreytingarlítið þennan tíma. Hann er samt enn að leita að landi og hefir skroppið einu sinni til Minneota og af og til til nágrannanna.

Eftir skólalok léttir hann sér upp

við að spila „Lomber“ og fara á tvo dansleiki, en er þess á milli í jarðnæðisleit og einhverjum búmanns hug. „— Ég gekk ofan til R. Veland, vildi kaupa uxa, það gekk eigi, fór heim um kveldið þreyttur og uxa laus. — Ég fór í businesstúr með Snorra, ætlaði að fara að stökkva í að kaupa kvart. Við ókum 8 mílur norður fyrir Minneota og til baka um kveldið, business laus-ir.“ Þá fer hann að bjóða sig í vinnumensku, en allstðar er sama sagan — engin vinna —.

„4. apríl. Við Frank (hann hefur ekki minnzt á Frank fyrr) fórum til Marshall með föt okkar í vinnu von. — Við Frank að höggva eldivið, hörð vinna — lítil laun —... Við Frank fórum til Minneota, vorum þar um nóttina.... Við að höggva eldivið til miðdags. Ég fór heim með Snorra og var í illum ham, reiður við allt... 9. apríl. Mikill sléttueldur. 11. apríl — Ég var við messu hjá séra Jóni Bjarnasyni. Góður dagur.“

Frá 12-16 apríl vinnur Páll af og til við eldiviðar högg í Marshall. Vinnan er erfið og illa borguð og hann óánægður með lífið.

17. apríl byrjar hann svo að vinna á járnbrautinni. Veðrið er vont og vinnan erfið, „... Rigning, lítil vinna. Ég barðist við írskan mann um kveldið, lagði hann á bak ofan í for.“ Allan maí er hann við járnbrautarvinnuna og eina tilbreytingin er járnbrautar ferð til Minneota um hvítasunnuhátíðina.

„1. júní. Ég var um kyrrt í Marshall. Fékk bréf að heiman frá pabba, Dóra bróður og Páli mági. Frétti lát Guðrúnar systur minnar. Ritaði Páli og pabba lítinn miða. Það var enginn gleðidagur, því ég var illa undir búinn fyrir þær fréttir.

Ég fór frá Marshall til Minneota með járnbrautinni og um kveldið til Magnúsar Gíslasonar og var þar um nóttina.... Við Dalman gengum til Lake Benton og svo til Aurora, keyptum ticket til Volga og skókumst tólf mílur til Norland og lágum þar í vagni um nóttina. Keyptum far til De Smith, gengum þaðan tíu mílur.... Höfðum eina máltíð um daginn. — Lítið um peninga — Fengum fría ferð tuttugu mílur, sváfum ekkert um nóttina.... Við keyptum máltíð fyrir 36 cent, gengum 30 mílur. Réðum okkur í vinnu; voruð orðnir lamaðir.

7. júní. Við vinnum í ergi, hörð vinna (hann segir ekki við hvað), kaup $1.50, borð $3.42 um vikuna. 8. jan., regn, drykkjuskapur, unnið eina og hálfa klukkustund... regn, kuldi, engin vinna. Við Dalman höfðum grimmdar áflog við Íra um daginn og höfðum sóma af. Fórum þaðan um kvöldið fimm mílur upp eftir og vorum þá 25 mílur vestan við James-river. Þar fengum við vinnu.... Ég lasinn en vann þó... Ég var mikið veikur í höfði en vann þó til miðdags.... Ég er þungt haldinn af mislingum.

Ég er með óráði. Menn héldu að ég ætlaði að hafa heimaskifti.

19. júní. Ég er lítið eitt betri og mér var ekið ofan til Huron, það var harðleikið ferðalag. Ég var þar nóttina, fékk meðöl og batnaði dálítið.... Við héldum áfram allan næsta dag og lágum úti um nóttina. Héldum áfram, lágum úti, fengum regn og flugur. Við náðum ofan til Volga,

lágum úti.... Við slógum niður hveiti (líklega fyrir mat)... Náðum ofan til Ísl. Ég gisti hjá Hjálmari, þeim sem ók mér ofan. 26. júní. Ég pillaði mig heim til Lofts og varð feginn að hvílast.

27. júní. Haldinn prestafundur hjá Birni á Stórholti.... Við Dalman urðum fyrir því að elta uppi alla þá sem eigi komu á fundinn og biðja þá að mæta á fundi Íslendinga í Lincoln City, 4. júlí." Júlímánuður er erfiður, vinna sama og engin nema við að höggva og hlaða við og ausa kjallara, því regn og hiti virðast skiftast á dag eftir dag. Síðustu dagana er Páll við að binda hveiti og segir að það hafi „gengið slysalítið".

Allur ágúst er rigningasamur og Páll vinnur þegar hægt er að vinna, stakkar hveiti, heggur við og er einn dag að gera við þreskimaskínu.

„22. ág.... Ég fór til H. V. Prestegaarden um kveldið og byrjaði mína tvo mánuði þar fyrir $35.00.... Ég að slá hey með sláttuvél í fyrsta sinn.... Ég að raka með vél í fyrsta sinn, gekk heldur illa. 13. sept. Ég að aka heyi. Þetta er seinasti dagurinn sem ég vinn sem mánaðar maður hjá H. Prestegaarden...

14. sept. Ég vann fyrri partinn við maís högg.... Ég byrjaði að plægja hjá Reishus. Plægði með uxum, það voru ófínar sviptingar, þó fór svo að þeir urðu að láta í minni pokann."

Frá september þar til um miðjan nóv er lítill dagamunur. Páll tekur dagvinnu, þegar hún gefst, og hvaða verk sem í boði er.

„14. nóv. Mikið frost. Við Friðgeir gengum vestur til M. Gíslasonar, komum þangað kl. hálf tólf, hálfdauðir af þreytu og kulda. 15. nóv. Norðan hríð og brunafrost. Ég var um kyrrt hjá Magnúsi. Þá tók ég til láns hjá Friðgeiri $143.25 uppá tíu af hundraði rentu árlangt.

Ég fór ofan til Minneota.... Vann mér 25c hjá T. D. Seals við snikkara vinnu!... Ég fór til Minneota með Jónatan R. settist þar hjá J. Frost í þeim vændum að fara að selja eldivið.... Ég ritaði Oddi Jónssyni, félaga, bréf og sendi $90.00 í peningum til að kaupa fyrir eldivið.

... Ég sagaði við fyrir 4. part af cord og vann mér inn 25c hjá Coats!!!". Í nóv. og des, er Páll í Minneota: „Vann í hveitihúsinu hjá Mr. Coats.... Ég að vinna hjá Coats og selja við.... Ég að selja við, gekk heldur illa." Þannig gengur það fram að jólum.

„24. des. Norðanhríð. Ég leigði mér hesta og sleða og ók norður til Íslendinga með Þorbergi og tveimur stúlkum, í myrkri og vondu veðri. Ég var hjá St. Sigurðssyni um nóttina, lítið um skemmtun."

Páll er svo þarna meðal landanna, sem spila á spil sér til skemmtunar. Annar hesturinn, sem hann fékk að láni, er særður af uxa og þarf að fá meðul og gera við sárið. Lækningin tekur marga daga. „Norðanhríð. Ég fór að Gröf að gera við sárið á hestinum, svo yfir til Lofts og þaðan gangandi til Minneota. Ég var þar um nóttna.

Gamlársdagur.... Ég fór norður aftur og maðurinn með mér, sem átti hestana. Hann var eins rýmilegur og ég gat búizt við.

Ég var hjá Lofti um nóttina og var ekki neitt fjörugur né þakklátur

við gamla árið, sízt þessa síðustu viku. Leiðinlegustu jól og gamlárskveld, sem ég hafði lifað — Good bye —

Nýársdagur, 1881.... Við B. Bjarnason og Loftur gengum að Gröf að vitja um hrossið, svo að Glæsivöllum. Bjarni og ég spiluðum þar um kveldið.“

Allan janúar hefir Páll enga vinnu. Hann er þarna hjá Ísl., en fer af og til til Minneota. Veður er hið versta allan mánuðinn. Einn daginn stakk hann sig á nagla. „Ég lá upp í rúmi í allan dag með ólund og verkjum.“ Síðustu dagarnir af jan., eru slæmir. „Alla dagana hríð og djöfulgangur svo allt ætlar að fenna í kaf. Margir í vondu skapi á þeim dögum.

Febrúar. Frá 1.-7., hríð á hverjum degi, ekki frostmikið, en fjarska snjókoma, kominn snjór að 20. fetum. Menn eru að verða bjargareldviðar- og heylausir. Ljótar kringumstæður í sjálfri Ameríku! „Góðar stundir!“

Allan febr., er hann hjá vinum sínum því ekkert er hægt að gera fyrir snjó. Ef eitthvað er farið bæja á milli þá er farið á skíðum.

„27. febr.... Ég fór til Óla Arngrímssonar.... Þar dansaði ég, og átti þó bágt með, því ég var slæmur í fætinum. En nú dugði engin afsökun því kvenþjóðin var svo fjörug ... Ég borgaði næturgreiðann hjá Óla með eldspýtum!!!... Far vel febrúar! Ég hef aldrei séð annan eins mánuð á ævi minni, sama vonzkan, snjókoma og hvassviðri. Ómögulegt að komast um jörðina nema á skíðum. Almenn kvörtun um eldiviðar-, hey- og matarleysi. Engin járnbrautarlest, flestu ekið á skíðasleða.“

Marz er allur eins, ófært veður flesta daga. Í þeim mánuði vann Páll aðeins einn dag. Apríl er svipaður. „... Öllum farið að ofbjóða veðráttan! Atvinna fæst þó við snjómokstur en marga daga er ekki hægt að vinna fyrir bleytuhríð og vonzkuveðri. „... Lítil vinna nema halda tímann“. Á páskadag skemmta þeir sér við að skjóta úr skammbyssum „... Ég gjörði það bezt.“

„19. apríl. Rigndi... Yellow Medicine river braut sig upp um kveldið með framúrskarandi aðgangi, allt í uppnámi. —

20. apríl. — Þoka, logn og þíða. Þá kom snjóplógurinn með alla sína púka. Mikið um dýrðir því allar leiðir voru ófærar.

Sumardagurinn fyrsti.... Vinna er létt, rétt að renna fram og aftur eftir brautinni. Járnbrautarlestin kom hér fyrst í dag eftir fjögra mánaða útivist og voru allir stórfegnir sem nærri má geta. 22. apríl. Hláka, öll vötn orðin vitlaus og brýrnar að fljóta burt af járnbrautinni, engin lest kom. Vinna sú sama.“

Páll hættir að vinna á járnbrautinni 5. maí og byrjar að vinna hjá T. Hanson. „... Ég er ráðinn til árs fyrir $15.00 á mánuði. Var að hreinsa hesthús og í kring um húsið — allan daginn í skítverkum...“

Hanson hefir búð og vínsölu og eftir þetta er hann ýmist í búðinni eða við vínsöluna og virðist ekki mjög ánægður með stöðuna. „... Ég er óttalega leiður á vinnunni, að selja vín fyrir þræl, það tekur blóð

úr heilu holdi. Þessi mánuður sá leiðinlegasti, sem ég hef lifað. ... Mér líkar alltaf ver og ver við húsbóndann, skammaði hann næstum á hverjum degi. Ég skildi við hann á laugardaginn og fór til Jóhannesar Frost.... Við höfðum messu í Minneota á sunnudagskveldið."

Allan júní vinnur hann dagvinnu fyrir hina og þessa, mest við að hlaða í járnbrautarvagna, hveiti, borð eða eldivið. Hitinn er ákaflega mikill og vinnan óstöðug. „... Yfirtaks hiti, lítið um vinnu. Ég vann mér bara inn 25c... Engin vinna. Ég fór til Marshall í kveld með hest og smávagn og hafði ljómandi fallega jómfrú með mér þar ofaní kaupið. Ég var samt náttúrlega óttalega skikkanlegur. Ég var hjá Hanson um nóttina, lítið um dýrðir."

Í júlí er sama og engin vinna, en Páll vinnur við hvað sem hægt er að fá, hleður hveiti í járnbrautar vagna, gerir við stræti, slær illgresi, grefur kjallara með Frost og „ég þvoði bugey fyrir Coats." Ekkert verk er svo lítilfjörlegt, að hann taki það ekki heldur en að vera vinnulaus.

„.. Ég byrjaði að plægja hjá G. Jacobson með hjólaplóg og gekk illa. Ég bölvaði mikið og var reiður — það rigndi um kveldið."

Hann vinnur þarna meðan plæging endist og fer svo að aka heyi úti á landi í tvo daga og þá byrjar hveitisláttur. Tíðin er óhagstæð og vinna fæst bara dag og dag.

„13. ág.... Mikill kuldi í morgun. ég skalf þegar ég kom á fætur.

16. ág. — Rigndi mikið um nóttina. Engin vinna. Ég fór til Minneota, mestur hiti á sumrinu 108 gr., í skugga... Rigndi alla nóttina og allan daginn... Ég fór til Minneota og var við messu hjá séra H. Briem ... Ég fór til Eagle Lake (150 mílur.) var að semja um viðarkaup, gekk allvel."

September byrjar með sólskini og hita, en það er of blautt til að vinna og Páll fer norður til Lofts. „... Rigning og kuldi svo mönnum lá við að skjálfa. Engin vinna... Óllifandi fyrir kulda.... Snjóaði í kveld milli kl. 10-11. Ég flutti prestinn, veikan, til Minneota í smá vagni.

„19. sept. — Forseti Bandaríkjanna dó kl. 10:35 e. h. í dag. 20. sept. — Sólskin, ég að stakka hey fyrir G. Jacobson. Mikill sorgardagur um öll Bandaríkin. Sorgarflagg á hverju húsi í bænum."

Frá því í október og fram í marz 1882 gengur allt sinn vana gang. Veður vont og lítið um vinnu. Páll selur við af og til og vinnur við smásnatt hjá hinum og þessum. Engin tilbreyting virðist vera nema „... Danssamkoma hjá Óla Arngr. þar sem Ísl. frá Marshall og Minneota hópuðu sig saman og ég fór með.... Tombóla og ball á þrettánda." Páll heldur að miklu leyti til hjá J. Frost. „... Ég gerði upp við Frost, borgaði honum borðið mitt til 12. jan. $58.00. ... Við Stefán gengum upp til Gunnlaugs á „Himnahæð" á fund Ísl. í Lincoln City., til að ræða um prest mál eftirleiðis. Ég hélt þar allharða ræðu, og brýndi fyrir mönnum að halda prest áfram og láta sér farast vel við hann. Ég var heldur berorður, en kom ár minni vel fyrir borð.. Fundurinn var fjörugur og „endalykt" góð."...

2. marz, 1882 — Sólskin og hláka. Ég er um kyrrt að búa mig undir brottferð.

4. marz. Norðan rigning. Ég fór af stað alfarinn frá Minneota til Winnipeg og Hjálmar Arngrímsson með mér. Við fórum til Snorra um kveldið og vorum þar nóttina. Ég átti $5.00 eftir það var aleigan. ... Við Hjálmar fengum C.B. Dougal að aka okkur til Benson... Fórum til Breckenridge og gistum þar á veitingahúsi, því versta er ég hafði séð. Við fengum ekki að sofa saman því þeir voru hræddir við ræningja. Við fengum þar ágætis máltíð fyrir 35c.... Fórum þaðan til St. Vincent. Vorum í Pembína um nóttina hjá Ísl., þar var vindur í þjóðinni. Eða svo!!!

10. marz. Við fórum til Winnipeg um kveldið.... Kristján sonur Jóns smiðs skaut yfir okkur skjóls húsi, og Kristján sonur Jóns frá Héðinshöfða gaf okkur mat um morguninn.... Fengum húsnæði hjá Jóni, syni Guðmundar frá Hjallahúsum, fyrir $4.00 um vikuna. Við vorum viðstaddir leikinn „N a r f a" um kveldið, það kostaði 25c.... Við vorum við lestur í Ísl. fél. húsinu, það fór vel fram.

16. marz. — Ég byrjaði að vinna á járnbraut við að moka snjó fyrir $2.00 á dag.... Ég fór með plóg til Brandon, 133 mílur vestur, hríð um nóttina.... Við unnum alla nóttina, héldum áfram til Portage og unnum þar næsta dag.... Við fórum til Austin og til baka til Reaburn, þar um nóttina og þá var hríð, sem entist fram að hádegi næsta dag. Við brutum plóginn og vorum að moka þar allan daginn. ... Við að moka og leggja járnbraut á sama stað....

26. marz. — ... Við komum heim í morgun kl. 8. Höfðum innunnið okkur $39.20 yfir vikuna, en það var harðsótt, því við höfðum lítinn svefn og lítinn mat... Ég ýmist á snjóplógnum eða við járnbrautarlagningu.... Ég er heima með snjóbirtu og ólund....

... Ég fékk borgun fyrir marz, $70.00 og Hjálmar borgaði mér út. Ég borgaði konu Eyjólfs fyrir borð mitt til 20. apríl., og keypti mér kápu og græn gleraugu.... Fór á kvennafund í gær, allgóð skemmtun.... Fór út með snjóplógnum, við komumst til Grafield, brutum plóginn, fórum heim um nóttina, 17 kl. tíma vinna.... Fórum út aftur og unnum allan daginn og nóttina, vorum svangir með köflum en komumst til Reaburn...

Sumardagurinn fyrsti. Norðan gola og frost. Vinnan sama. Ég byrjaði að borða hjá Baldvin.... Asahláka. Mikill vatnagangur brautin nálega öll á floti, árnar ófærar. Brautin þvegin út fyrir sunnan St. Vincent. Við unnum allan daginn til kl. 9. Winnipeg bær fullur af vatni.... Vatnið að lækka. Vinnan sú sama.... Brenna í Wpg., kveikt í hverju húsinu á fætur öðru.... Við fórum til Stone Wall í kveld til að hlaða grjóti í vagn — vond vinna — komum til baka kl. 3 um nóttina, fengum $4.00...

Ég við messu. Séra H. Briem messaði. Hann var kosinn prestur Winnipeg Ísl. til 4 mánaða. Ég skrifaði mig í söfnuð með $5.00 tillagi...

Afmælisdagur Englands drottningar. Mikið um dýrðir í Wpg. Ég

tók engan þátt í því. Það voru þrumur og eldingar um kveldið.

Þegar snjóinn tekur er járnbrautarvinnan búin og lítið um aðra vinnu. „... Ég vann hjá Helga Jónssyni við girðingar.... Vann í kringum búðina hjá Hudson Bay.... Við B. S. Lindal fórum að leita að vinnu. Gerðum „Stræk" uppá $2.50 á dag og fengum það við grjótvinnu, átta tíma á dag....

... Við lögðum upp heill hópur Ísl. frá Winnipeg suður til Pembina til að heimsækja landa í Dakóta 4. júlí. Við fórum á „traininu" til „Pembina" og þaðan upp til fjalla. Ferðin frá Pembina til Cavalier gekk mjög seint en slysalítið. Þá var mikið ort og mörgu logið. Í fél. voru þessar heiðurspersónur: Helgi Jónsson, Guðrún Jónsdóttir, Árni Friðriksson, B. S. Lindal, B. Lindal, P. S. Bardal og Sigríður Jónsdóttir. Vér gistum í Cavalier um nóttina, og héldum svo áfram ferðinni upp í Víkina. Þar var all mikið um dýrðir: Ræðuhöld, söngur, dans, glímur, át og drykkja. Ég gjörði þar engar fígúrur nema glíma.... Við fórum heim 6. júlí á „traininu", þetta var góð skemmtun. Þennan mánuð gjörðist lítið, ég var af og til að bólusetja landa mína. Vann stundum aðra vinnu. Veðuráttan var heit og vot.

Ágúst mánuður 1882.... Ég var ýmist að bólusetja eða vinna við að bera vegglím allan þennan mánuð. Tíðin ákjósanleg að öllu leyti. Ýmislegt smávegis ber til tíðinda, svo sem samræður við stúlkur og ganga út með þeim stökusinnum etc. Ég hafði heldur lítið uppúr tímanum, en vinnan létt, svo ég var hreint ódrepinn eftir þennan mánuð.

September 1882. — Ég vann við að bera vegglím til hins níunda. Kveldið áttunda byrjaði ég að vaka yfir Birni Sæmundssyni, sem þá var búin að liggja í viku í „Typhoid fever" og var þungt haldinn.

Afmælisdaginn minn var ég að leita læknis fyrir Björn og snúast í kring um hann.... Leiðinda vinna. ... Ég sat hjá Birni allan þennan mánuð. Reyndar leiðinda vinna og ekki fín...

1. okt. 1882. — Björn fór fyrst í föt í dag, en Kristján Pétursson þá búinn að liggja nálægt viku. Ég tók þá við að passa hann til hins fimmtánda, þá klæddist hann. Það var dynjandi rigning allan daginn, krapa hríð um kveldið og snjóaði um nóttina. 16. okt. — Sól, norðangola og kuldi. Ég að leita að vinnu en fann enga.

17. okt. — Sama veður, sama vinna.

Hér lýkur Dagbók Páls Bárdals og hvað þá hefur tekið við verður maður að geta sér til. Líklega hafa næstu mánuðir og jafnvel ár verið eitthvað svipuð. Páli hefur samt ekki alltaf gengið illa, því að hann varð lánsmaður og sómi íslenzka þjóðarbrotsins hér í Winnipeg, og vita þeir það bezt, sem voru honum kunnugir.

Dagbók hans er sýnishorn af fyrstu árum Íslendinga hér í Vesturheimi og hvernig þeir með dug og dáð yfirstigu erfiðleikana.

GÍSLI JÓNSSON:

# Athugasemd og kvæði

Í fertugustu árbók þessa tímarits prentaði ég leikritið **Gestakoman** eftir Kristján Jónsson, sem talið hafði verið týnt. Minntist ég þar og á tvö kvæði, sem ekki fundust í kvæðabókum Kristjáns, **Herðubreið** og gamankvæði, sem kalla mætti **Sen og son**. Nú stendur svo á, að ég hefi undir hendi allar fjórar útgáfurnar af kvæðum hans, og sé ég nú, að **Herðubreið** hefir verið tekin upp í þriðju Reykjavíkur útgáfuna, en hinu verið sleppt. Við það að fletta bókinni kemst maður að raun um það, að ógrynni af kvæðum og vísum þar er að mun lélegra en þetta áðurnefnda kvæði. Sem sjá má af efni kvæðisins, er það frá Reykjavíkur árum Kristjáns og ort út af einhverri kvenfélags yfirlýsingu í Þjóðólfi. Kristján var óefað málhreinsunarmaður, eins og vinur hans Jón Ólafsson, sem gaf út kvæðin síðar meir, og hataði öllu öðru fremur karlkynsendingar í ættarnöfnum kvenna; bera fleiri kviðlingar hans þess vott. Kenndi hann þær konur, sem hér um ræðir, allar við Brók-Auði, sem naumast var þó sanngjart, því Auður var ágætis kona, sem sjá má í Laxdælu, og vann það eitt til nafnsins, að hún var nærri þúsund árum á undan tímanum í klæðaburði kvenna.

Í trausti þess, að eldri menn, sem enn kunna að unna kvæðum Kristjáns, hafi gaman af, læt ég þetta kvæði fljóta hér með.

## Sen og Son

Kannizt þér við keisarann á Kína grund,
heiðursmann með höfðingslund?

Allar listir iðkar hann á ýmsan veg,
og kaupir Þjóðólf eins og ég.

Í fyrra vetur ferðamenn til fylkis bar —
engum manni er úthýst þar.

Þjóðólfsstranga þengill fékk með þessum gest,
lofðung hann að lesa sezt.

Fróðlegar margar fréttir sjóli fékk úr Vík
um kláðapest og pólitík.

Lofðung þegar lesið hafði litla stund,
gjörðist honum gramt í lund.

„King Ling", sagði keisarinn og kalla vann
á ríkis stærsta ráðgjafann.

Gylfi þá við gæðing sinn svo gjörði tjá:
„Græða á Þjóðólf margt nú má.

Heiðurskonur hafa ritað hér sín nöfn
fyrir handan dimma dröfn.

Með fullum stöfum fljóða heiti
finnast skráð
fyrir dýra drottins náð.

Þessu hælir Þjóðólfur og það er
von;
þau enda öll á **sen** og **son.**

Ennþá hugði ég eigi fyrir ofan
mold
Brók-Auðir á frerafold.

Farðu og segðu svönnum hér á
Sína-grund
að nefna sig á sömu lund.

Sonu eina, en eigi dætur eiga má
hilmis ríki héðan í frá."

Ræsis boð hans ráðunautur rækja
vann.
Amen segi' ég eins og hann.

---

# To a Cloud

**By Jón Thoroddsen**

Dark-featured cloud
with deathly shroud
what is your frown implying?
Akin to me
you well might be—
I see that you are crying.

Still you can roam
far, far from home
through heaven's trackless spaces.
But I am tied
both day and night
to the earth's dreary places.

Swift flying cloud
drift out, drift out
from this dark vale of madness,
down here on earth
there is no mirth,
but only tears and sadness.

—Translated by Gísli Jónsson

Dr. STEFÁN EINARSSON:

# The Poetry of Egill Skalla-Grímsson

Of all the Old Icelandic poets Egill Skalla-Grímsson was by far the most important. In him one can detect the characteristics of two different races. On one hand we see the splendor-loving Viking leader; on the other we notice unattractive physical features that could have been inherited from ancestors of the peasant or Lapp hunter type. The latter were known to be taciturn, distrustful and introvert. It is also of importance in our context that Egill Skalla-Grímsson was torn between two opposing ways of life. He was a member of a community of family-conscious farmers who in their earth-bound every day life found it logical to depend on Thor, but during his life Egill was also deeply influenced by the radical and individualistic philosophy of adventurous Vikings who had chosen Óðinn as their supreme god. The Vikings are known to have sacrificed the timehonored reliance upon the family for independence of action and bonds of friendship.

Egill's grandfather, Kveldulfr, had a streak of the berserk in his nature — and so did Skalla-Grímr, Egill's father. But Egill's uncle Þórólfr and his own brother, also by the name of Þórólfr, fitted the concept of the Nordic hero. Both the Þórólfrs were dazzled by the splendor of the rising monarchs of Norway, King Haraldr Hairfair and his son Eiríkr, but neither uncle nor brother were crafty or pliable enough to retain the king's favor; the uncle was slandered by enemies and later killed by the king (Haraldr) himself. These events compelled Skalla-Grímr and his family to emigrate to Iceland.

Skalla-Grímr settled at Borg in Borgarfjörd where he became an excellent farmer and a mighty worker. At Borg his son Egill was born and there he grew up with his transplanted kinsfolk. As has already been implied, he inherited the dark unattractive appearance of his father and with it a crafty distrustful outlook upon life. He became a sorcerer like his Lapp ancestors, and he inherited the inordinate avarice of his money-saving father, the farmer. But unlike his father and grandfather he possessed the mighty urge of the Viking for adventure and travel. In this he resembled his uncle Þórólfr. As a fighter and a stickler for law and honor Egill stopped at nothing, courting trouble wherever he went. At home he was a loyal member and protector of his family and behaved in accordance with the good old Germanic tradition. Abroad he gave his loyalty to Kings (Athelstan of England) and struck up Viking friendships which only death could dissolve. But to even an amazing

degree he was also endowed with sensibility or sensitivity. These characteristics revealed themselves in Egill's shy attitude towards the woman who finally became his wife and was apparently his only love. His astounding capacity for despair is described in a memorable fashion in the part of his Saga which tells of the death of his sons. This sensitivity is one of the marks of a poet at any time. And Egill did have the gift of poetry, and his poetry was such that its like was not found in Iceland for centuries to come and perhaps not in other Germanic countries of Europe either until the Renaissance.

The story of Egill Skalla-Grímsson is told in **Egils saga**, one of the most original of the Icelandic family sagas, perhaps the work of Snorri Sturluson, Egill's most gifted descendant. In the main the saga corroborates the same picture of Egill which is reflected in his poetry. It has heroic proportions, for Egill was a hero, though strangely blended with picaresque traits long before the rise of the picaresque novel. It was due to these picaresque traits of the hero that an 18th century expert on sagas decided that **Egils saga** was not fit for printing.

As a young boy Egill soon gave promise of being a roughneck. He was not fully seven when he slew an older boy who had treated him roughly at a ball-play. His father was not very impressed with this incident, but his mother said that he was of Viking stuff and that he should be given a ship for an expedition when old enough. This pleased Egill so that he composed what is now his earliest preserved verse:

This did say my mother:
that for me should be bought
a ship and shapely oars,
to share the life of Vikings —
to stand up in the stem and
steer the goodly galley,
hold her to the harbor
and hew down those who meet us.

This stanza has all the marks of genuineness upon it, it is obviously the work of a beginner, a thing which cannot be said about two other stanzas in the same meter that Egill is supposed to have composed even at an earlier age. This at once raises the question: how many of the 50-60 occasional stanzas in the saga might be genuine. Scholars have disagreed but the last editor of the saga, Sigurður Nordal, believes that most of them could have been composed by Egill himself, if not always at the occasion claimed, then later in life when he was telling the stories of his mighty deeds to younger friends or to his descendants.

Egill did not wait long for an opportunity to go abroad and to get acquainted with Viking adventures. As an uncouth youth of seventeen he forced his company upon his splendid older brother, Þórólfr, and his betrothed when they went to Norway to get married. The saga does not explicitly state this, but it is likely that already then Egill had fallen in love with his foster sister, Ásgerðr, the lady whom Þórólfr intended to marry. That would explain well Egill's feigned sickness at Þórólfr and Ásgerðr's wedding

11. Arnór S. Thorgilson, í Ashern, Man., fimmtugur að aldri.

16. Hanna Reykdal McGregor, ekkja Andrew McGregor, fyrrum í Winnipeg, í Kelowna, B.C.

17. Ari Guðmundur Magnússon húsamálari, fyrrum í Charleswood, Man., í Winnipeg. Fluttist þangað frá Íslandi fyrir 65 árum.

18. Kristjana Stephensen, ekkja Sigurðar Stephensen, í Winnipeg. Fædd á Akureyri 1881 og flutti til Canada tvítug að aldri.

21. Guðjón Sveinbjörnson, fyrrum landnámsmaður og bóndi í Kandahar: Jón Sveinbjörnson og Guðný Andrésdóttir Félsted. Kom með þeim vestur um haf 1887.

23. Kristín Anderson Larsen, kona Bruce Larsen, í Richmond, B.C., 41 árs gömul. Frá Baldur, Man.

23. Raquell Laura Austman Chrabaszez, kona Próf. J. J. Chrabaszez, í Winnipeg. Fædd þar í borg 23. apríl 1922. Foreldrar: Dr. Kristján Jónsson Austman og Ólöf Guðbjörg Þorsteinsdóttir Oddsson.

26. Valdimar Bjarnason, bóndi, í Langruth, Man. Fæddur þar 23. júlí 1897. Foreldrar: Sigfús Bjarnason og Guðfinna Bjarnadóttir, bæði austfirzk.

28. Þorsteinn (Steini) S. Skagfeld, að Oak Point, Man. Fæddur 24. jan. 1888 í Geysisbyggð í Nýja Íslandi.

29. Christina Johnson Lillington, kona Henry Alfred Lillington, í Palo Alto, Calif., 71 árs að aldri. Fædd í Vestfold, Man.

31. Gunnar Johnson, í Selkirk, Man., 88 ára gamall. Búsettur þar síðan hann kom frá Íslandi fyrir 63 árum.

**NÓVEMBER 1967**

5. Jóhannes Magnússon bóndi, að Víðir, Man., 54 ára. Fæddur þar. Foreldrar: Ármann og Ásgerður Magnússon.

8. Þorsteinn J. Johnson, á Gimli, Man., 79 ára að aldri. Fluttist af Íslandi til Canada með foreldrum sínum, séra Jóni Jónssyni og Maríu konu hans, árið 1902.

15. Stefanía Magnússon, ekkja Jónasar Magnússon, á elliheimilinu „Betel" að Gimli, Man. Fædd á Ósi við Íslendingafljót 1877. Foreldrar: Landnámshjónin Lárus Björnsson og Guðrún Stefánsdóttir, er fluttu vestur um haf 1876.

16. Lawrence G. Anderson, útfararstjóri, í Ashern, Man., 53 ára gamall.

16. Una Jakobson, ekkja Guðmundar Jakobson, í Árborg, Man., 78 ára að aldri. Fædd í Geysisbyggð og búsett á þeim slóðum ævilangt.

18. Fred Christianson, í Parkdale, Man., 67 ára. Fæddur að Akra, N. Dakota, en flutti til Canada 1903.

19. Aldís Pétursson, ekkja Franklíns Péturssonar, á „Betel" að Gimli, Man., 87 ára gömul. Kom frá Íslandi til Canada um aldamótin og átti lengstum heima í Árborg.

,21. Guðrún Josephine Bardarson, kona Johns Bardarson, í Baldur, Man. Fædd í Argylebyggðinni 18. sept. 1901. Foreldrar: Jón og Hólmfríður Richter.

24. Helgi Kristinn Thordarson, í Winnipeg, 65 ára að aldri. Foreldrar: Eggert Þórðarson og Helga fyrri kona hans að Höfða í Mikley, Man.

24. Pálmi (Paul) A. Berg, áður í Whitehorse, Y. T., í Vancouver, B.C. Foreldrar: Guðmundur S. Berg og Guðbjörg kona hans, lengi búsett við Hnausa, Man.

25. Grímur E. Johnson, fyrrum kaupmaður að Markerville, Alberta, í Victoria, B.C., 88 ára að aldri. Fæddur í Minneota, Minn. Foreldrar: Einar Jónsson og Ólöf Grímsdóttir, er fluttu frá Einarsstöðum í Vopnafirði til Minneota 1877.

29. Rafn Goodman, á Lundar, Man., 78 ára að aldri.

**DESEMBER 1967**

5. María Halldórsson, ekkja Baldvins Halldórssonar skálds, í Winnipeg, níræð að aldri. Fluttist barnung frá Íslandi til Canada, og átti um langt skeið heima í Riverton, Man.

8. Jónína Thorgerður Ólafson, ekkja Ólafs Jónssonar Ólafssonar, fyrrum í St. Vital, Man., í Winnipeg, 99 ára að aldri. Kom frá Íslandi til Winnipeg 1887.

14. Samuel Frederickson, í Dauphin, Man., 62 ára. Fæddur að Brú í Argylebyggð.

16. Alice Le Messurier, kona Herberts Le Messurier, í Vancouver, B.C. Íslenzk í móðurætt. Fósturdóttir Jóhanns Magnúsar Bjarnasonar skálds og Guðrúnar Hjörleifsdóttur konu hans.

18. Eyvindur E. T. Eyvindson, í Portage La Prairie, Man.

20. Snæbjörn J. Halldórson, frá Lundar, Man., í Eriksdale, Man. Fæddur í Mountain, N. Dakota, 5. jan. 1883, en fluttist til Canada 1895.

22. Jóhanna Stefánson, ekkja Guðmundar Stefánssonar, í Winnipeg, 77 ára að aldri. Fædd að Clarkleigh, Man.

26. Fjóla Jónína Sveinson, ekkja Brynjólfs Sveinssonar, á Gimli, Man., 57 ára gömul. Fædd í Selkirk, Man.

29. Sylvia Moyra Björnson, á sjúkrahúsi Ríkisháskólans í Minnesota í Minneapolis. Fædd þar í borg 13. okt. 1950. Foreldrar Björn, ræðismaður Íslands, og Birgit Björnson í Minneapolis.

# Fertugasta og áttunda Þjóðræknisþing

**Ræða forseta Þjóðræknisfélagsins, séra Philips M. Péturssonar, við þingsetningu.**

Háttvirtu gestir og þingfulltrúar:

Við upphaf máls míns vil ég leiðrétta athugasemd þá, sem ég gerði við þingsetningu í fyrra. Ég fjölgaði þá þjóðræknisþingunum frá upphafi um eitt. Nánari rannsókn hefir leitt í ljós, að hækkun þessi á tölu þinganna hafði ekki við rök að styðjast. Villu þessa lét ég leiðrétta, áður en ræða mín birtist á prenti í Tímariti þessa árs.

Ég vil nota þetta tækifæri til að bjóða þinggesti velkomna og láta í ljós þá ósk, að enn megi þjóðræknisfáni vor blakta við hún. Félag vort lifir ennþá góðu lífi, og framtíðin býr vafalaust yfir sigrum á ýmsum sviðum. Vissulega söknum við sárt þeirra félagssystkina, sem látizt hafa á liðnu ári. Helzta leiðin til að heiðra minningu þessa góða fólks er að starfa áfram að þeim málum, sem það hlaut að hverfa frá. Ég les nú nöfn hinna látnu og bið þinggesti að votta þeim virðingu með því að rísa úr sætum: Í Árborg hafa látizt: frú Sesselja Böðvarson, frú Emilía Oddson, frú Svanbjörg Sveinson, frú Andrea Johnson, Eiríkur Bjarnason, Eggert Guðmundson og Snæbjörn S. Johnson. Frá Lundar: frú Ásta Sigurdson, dr. Númi Hjálmarson, Geiri Austman, Mrs. Pálmi Jóhannsson. Frá Winnipeg: frú Aðalbjörg Soffía Bíldfell, Fred Thordarson, Ottó Hallson, frú Jóhanna Cooney, fröken Guðbjörg Sigurdson, Kristján Thorsteinsson og frú Una Lindal. Úr Geysisbyggð: frú Una Pálsson. Frá Seattle: frú Emelía (Bardal) Sullivan. Frá Ashern, Man.: Björn Jónsson. Frá Lesile Sask.: Páll Guðmundsson. Frá Morden: Frú Louisa Gíslason og Leonard Helgason. Frá Point Roberts: Árni S. Mýrdal.

Því miður hefir mér sjálfsagt ekki tekizt að ná í öll þau nöfn, sem hér ættu að vera, og bið ég velvirðingar á því, eins biðjum við af heilum huga, að minning hinna látnu verði í heiðri höfð.

Á liðnu ári hefir stjórnarnefnd Þjóðræknisfélagsins haldið 8 aðalfundi og fáeina aukafundi. Í nafni félagsins kom ég fram á fundi hjá deildinni „Norðurljós" í Edmonton í febrúarmánuði. Í apríl flutti ég erindi á samkomu lestrarfélagsins á Gimli. Þá flutti ég einnig kveðjur í nafni félagsins á Íslendingadeginum á Gimli. Í septembermánuði gafst okkur hjónunum tækifæri til að heimsækja slóðir Stephans G. Stephanssonar í Alberta, og lögðum við leið okkar að minnisvörðunum tveimur, sem reistir hafa verið í heiðurs skyni við minningu skáldsins. Einnig komum við að húsi Stephans og skrifuðum nöfn okkar í gestabók, sem þar liggur frammi. Okkur féll þungt að sjá hús skáldsins í niðurníðslu, en miklu myndi þurfa til að kosta, ef í endurbyggingu væri ráðizt og húsinu síðan haldið við. Í þessu sambandi má það vera oss huggun, að skáldið Stephan G. Stephansson mun lifa, meðan íslenzk tunga er töluð.

Um meðnefndarmenn mína í stjórnarnefnd Þjóðræknisfélagsins skal þess getið, að Jakob Kristjánsson skjalavörður, Páll Hallson vararitari og frú Kristín Johnson varafjármálaritari hafa unnið að ýmsum störfum svo sem tímafrekri skrásetningu Frónsbókasafnsins í Winnipeg. Frú Kristín tók einnig þátt í Íslands sýningu, sem Eatons verzlunin hér í bæ efndi til s. l. haust, en þar störfuðu með henni, nafna hennar, frú Kristín Johnson (Mrs. Guðmundur Johnson), ungfrú Margrét og Regina Sigurdson og frú Guðrún Blöndal.

Guðmann Levy fjármálaritari hefir sem áður annazt auglýsingasöfnun og afgreiðslu fyrir Tímaritið. Frú Hólmfríður Daníelson skipar vitaskuld veigamikla stöðu. Hún hefir í ár ráðið fram úr mörgum vanda fyrir einstaklinga og félög í Norður Ameríku, sem láta sig íslenzk mál einhverju varða. Einnig vann frú Daníelson mjög að undirbúningi verzlunarsýningar þeirrar hjá Eatons, sem fyrr er um getið. Að því máli starfaði og féhirðir vor, Grettir aðalræðismaður Johannson, mjög ötullega. Grettir hefir einnig komið því til leiðar, að höggmynd sú af Vilhjálmi Stefánssyni, sem áður hefir verið rædd hér á þingum, fái samastað í hinu mikla listmunasafni, sem verður til húsa gegnt Borgarráðshúsinu við Main Street hér í bæ. Formaður þeirrar nefndar, sem annast byggingu listmunasafnsins, herra Maitland Steinkopf, hefir þakksamlega þegið áður greinda höggmynd og telur, að listasafninu verði mikill fengur í henni.

Síðar hér á þinginu verður rætt um bronzskjöld þann, sem Vestur-Íslendingar hafa látið gera í minningu um landafundi þeirra Bjarna Herjólfssonar og Leifs Eiríkssonar, en eins og þingheimi mun kunnugt, ætlar Sambandsstjórnin í Ottawa að koma skildinum fyrir í meiri háttar stjórnarbyggingu í höfuðborginni.

Fyrrverandi forseti Þjóðræknisfélagsins, dr. Richard Beck og kona hans frú Margrét Beck, voru sérstakir fulltrúar Þjóðræknisfélagsins í Íslandsför sinni síðastliðið sumar. Flutti dr. Beck kveðjur í nafni félagsins við fjölmörg tækifæri. Eftir heimkomuna hafa þau hjón flutt skemmtiskrár úr ferð sinni til Íslands og Norðurlanda á mörgum samkomum.

Það er mér mikið ánægjuefni að geta skýrt þingheimi frá því, að í síðari hluta júlí mun forseti Íslands heimsækja Manitoba. Mun hann m. a. flytja aðalræðuna á Íslendingadeginum að Gimli. Fyrr á sumrinu mun hann verða sérstakur heiðursgestur á Heimssýningunni í Montreal. Skal þess getið hér, að formaður íslenzkudeildar Heimssýningarinnar, Gunnar Friðriksson, hefir æskt þess, að fá ábendingar frá Vestur-Íslendingum um skipulag íslenzku deildarinnar í Montreal. Enn skal þess getið, að séra Benjamín Kristjánsson hefir nú að mestu lokið við 3. bindið af Vestur-íslenzkum æviskrám. Á hann sannarlega miklar þakkir skilið fyrir sitt óeigingjarna fræðimannsstarf.

Stjórnarskrá Þjóðræknisfélagsins er nú í endurskoðun og mun vafalaust verða margra breytinga þörf. Má geta þess, að margir hafa ympað á því við mig, að nauðsyn beri til að efna til hópferðar til Íslands. Verðum við að ræða það mál nánar hér á þinginu.

Áður en ég lýk máli mínu, vil ég bjóða velkomna til þings ungfrú Shirley Thorsteinson. Hún er fulltrúi hinnar nýstofnuðu Þjóðræknisdeildar Edmonton Íslendinga, en sú deild gengur undir nafninu „Norðurljós". Að lokum vil ég þakka ráðamönnum Fyrstu lútersku kirkjunnar hér í Winnipeg fyrir það að ljá okkur staðar í salarkynnum kirkjunnar enn á ný þrjá daga í röð.

**Ég þakka svo góða áheyrn.**

## Ágrip af fundargerð fertugasta og áttunda Þjóðræknisþings:

Forseti Þjóðræknisfélagsins, séra Philip M. Pétursson, setti hið fertugasta og áttunda Þjóðræknisþing, mánudagsmorguninn þann 27. febrúar, kl. 10.15 f.h. í samkomusal Fyrstu lútersku kirkjunnar í Winnipeg. Dr. Valdimar J. Eylands flutti bæn við þingsetningu, og sungnir voru sálmar við undirleik Gunnars Erlendssonar.

Þegar forseti hafði lokið máli sínu, lagði dr. Valdimar Eylands til, að skýrsla forseta yrði samþykkt með þakklæti fyrir störf hans og stjórnarnefndarinnar. Var svo gert. Forseti skipaði síðan í tvær nefndir sem hér segir: Í kjörbréfanefnd voru skipuð þau frú Kristín Johnson, Gísli S. Gíslason og Guðmann Levy, í dagskrárnefnd voru skipaðir þeir Jakob F. Kristjánsson, Haraldur Bessason og Grettir L. Johannson. Samkvæmt skýrslu féhirðis, Grettis L. Johannsonar, voru tekjur Þjóðræknisfélagsins $3,483.93, en í sjóði frá fyrra ári $1,160.88; inneign var því $4,644.81. Útgjöld voru $4,150,64; í sjóði eru því $496,17. Féhirðir flutti einnig skýrslu umsjónarmanns byggingarinnar að 652 Home Street; nettó tekjur af þeirri byggingu voru $1,746.28. Fjármálaritari, Guðman Levy, flutti sína skýrslu þess efnis, að hann hefði afhent féhirði $719,89. Skýrslum þessum var vísað til væntanlegrar þingnefndar í fjármálum.

**Annar fundur**
hófst kl. 2 e. h. þann 27. febr. Fundargjörð fyrsta fundar var lesin upp og samþykkt. Frú Kristín Johnson lagði því næst til, að eftirtaldir fulltrúar hlytu full þingréttindi: frá Lundar deild: Gísli S. Gíslason (17 atkvæði), frú Ingibjörg Rafnkelsson (16 atkv.); frá deildinni Frón í Winnipeg: ungfrú Regina Sigurdson, ungfrú Margrét Sigurdson, Jakob F. Kristjánsson, frú Hanna Guðmundsson og Páll Hallson (15 atkv. hver); frá Gimli deild: frú Inga Nelson (19 atkv.), frú Guðrún Árnason (20 atkv.), frú Guðrún Thompson (20 atkv.); frá deildinni Esjan í Árborg: frú Herdís Eiríkson (20 atkv.), Jón Pálsson (20 atkv.); frá deildinni Norðurljós í Edmonton: ungfrú Shirley Thorsteinson (20 atkv.).

Forseti las þessu næst bréf frá Gunnari Friðrikssyni framkvæmdastjóra íslenzkudeildarinnar á Heimssýningunni í Montreal, þar sem rætt var um væntanlega þátttöku Íslands í sýningunni og beðið um ábendingar frá Vestur-Íslendingum. Einnig var rætt nokkuð um möguleika á því að efna til hópferðar til Íslands.

Grettir L. Jóhannson flutti þessu næst kveðjur frá Pétri Thorsteinsson sendiherra, Brynjólfi Jóhannessyni leikara, Sigurði Helgasyni formanni Loftleiða og Sigurði Sigurgeirssyni formanni Þjóðræknisfélagsins í Reykjavík. Kveðjunum fylgdi söngur og erindi, og var það hvort tveggja flutt af segulbandi.

Forseti skipaði þessu næst í nefndir sem hér segir: í fræðslu og útbreiðslumálanefnd þau Ingibjörgu Rafnkelson, Harald Bessason, Jakob F. Kristjánsson, ungfrú Shirley Thorsteinson, frú Guðrúnu Thompson og frú Margréti Beck, í samvinnumálanefnd við Ísland voru skipuð frú Guðrún Árnason, ungfrú

Margrét Sigurdson, Jakob F. Kristjánsson, Ingólfur Bjarnason og dr. Richard Beck, í allsherjarnefnd frú Ingibjörg Bjarnason, Páll Hallson, frú Kristín Johnson, frú Inga Nelson og Walter Johannson, í fjármálanefnd frú Herdís Eiríksson, Gísli S. Gíslason, Grettir L. Johannson, frú Guðrún Thompson og frú Kristín Johnson, í útgáfunefnd Jón Pálsson, frú Herdís Eiríksson, dr. Richard Beck, frú Guðrún Árnason og Árni Sigurðsson.

Forseti las þessu næst tilkynningu frá Birgi Thorlacius ráðuneytisstjóra í Reykjavík um námsstyrk, sem veita skal stúdent frá Vesturheimi. Einnig las forseti bréf frá Þjóðræknisfélagi Akureyrar (Vinafélagi Vestur-Íslendinga).

**Þriðji fundur**

hófst kl. 10 f. h. þriðjud. 28. febr. Forseti las í upphafi fundar bréf frá frú Marju Björnson, þar sem farið var fram á styrk frá Þjóðræknisfélaginu og einstaklingum við fjársöfnun þá, sem frú Björnson hefir með höndum fyrir félagsheimilið Hallveigarstaði í Reykjavík. Frú Kristín Johnson tilkynnti, að þau hjón dr. Richard Beck og frú Margrét færu hvort um sig með 20 atkvæði sem fulltrúar deildarinnar „Báran" á Mountain í Norður Dakota. Einnig tilkynnti frú Kristín, að þau hjónin Leifi og frú Jafeta Skagfjord hefðu hvort 12 atkvæði sem fulltrúar deildarinnar „Brúin" í Selkirk.

Næst er útdráttur úr skýrslum einstakra þjóðræknisdeilda:

Leifi Skagfjord flutti skýrslu deildarinnar „Brúin" í Selkirk. Tala deildarfélaga er 24. Fimm fundir voru haldnir á árinu, allir vel sóttir. Fáeinar nýjar bækur voru keyptar og dálítil fjárupphæð athent Lögbergi-Heimskringlu.

Páll Hallson flutti skýrslu deildarinnar „Frón" í Winnipeg. Frón hélt skemmtifund í nóvember. Dagskráratriði önnuðust Skúli Jóhannson, Heimir Thorgrimson, Hrund Skúlason og Páll Hallson. Frónsmótið í febrúar tókst furðuvel. Nefndarfundir á árinu voru allir haldnir á heimili forseta, Jakobs F. Kristjánssonar. Frú Hrund Skúlason og Jakob F. Kristjánsson hafa haft yfirumsjón með skráningu Frónsbókasafnsins. Ýmsir góðir menn og konur hafa veitt liðsinni sitt við það starf.

Lundardeildin hefir mikið starfað, eins og gleggst mátti sjá á skýrslu Gísla S. Gíslasonar. Félagar teljast 33. Almenn samkoma var haldin í maí. Á þessari samkomu sýndi Jakob F. Kristjánsson lit- skuggamyndir frá Íslandi, en Heimir Thorgrimson flutti ræðu. Útisamkoma var haldin við minnisvarða landnemanna 10. júlí. Þar flutti Óli Johnson frá Eriksdale aðalræðuna, en söngstjórn önnuðust þau frú Jóna Kristjánson, Njáll Bárdal og Heimir Thorgrimson. Ein spilasamkoma var haldin, þrír deildarfundir og nokkrir stjórnarnefndarfundir. Deildin lagði fram $50.00 í Leifs Eiríkssonar sjóð og $60.00 í sjóð elliheimilisins að Lundar. Gjafir þessar voru gefnar í minningu um látna félaga.

Frú Herdís Eiríkson flutti skýrslu deildarinnar „Esjan" í Árborg. Í þeirri deild eru rúmlega áttatíu félagar. Útlán bóka úr bókasafni deildarinnar hafa verið mikil sem á undanförnum árum. Nýjar bækur voru falaðar frá Íslandi. Ákveðið hefir verið að láta skrá deildarbókasafnið sem hluta hins nýja héraðsbókasafns, sem nýlega hefir verið stofnsett.

Deildin efndi til skemmtisamkomu í febrúar undir stjórn séra Philips M. Péturssonar. Aðaldagskráratriði var upplestur hins kunna leikara, Brynjólfs Jóhannessonar. Brynjólfur skemmti og með gamanvísunasöng við undirleik frú Jónu Kristjánson. Séra Philip sýndi litskuggamyndir frá Íslandi og ungfrú Svava Sæmundson skemmti með upplestri. Deildin hefir ákveðið að leggja af mörkum $100.00 í Leifs Eiríkssonar sjóð og hefir greitt $10.00 sem árstillag í Skógræktarfélag Íslands. Forseti deildarinnar er Gunnar Sæmundson, og Aðalbjörg Sigvaldason er ritari.

Dr. Richard Beck gaf munnlega skýrslu um störf deildarinnar „Báran" á Mountain. N. D. Dr. Beck gat þess að almenn samkoma hefði verið haldin að Eyford og hefðu meðlimir yngri kynslóðarinnar skemmt þar með bæði íslenzkum og enskum söngvum. Á samkomunni flutti dr. Beck erindi um Íslandsferð, en frú Beck sýndi litskuggamyndir úr þeirri ferð. Meðlimir Báru eru 45, en kaupa þó 50 eintök af „Tímaritinu". Forseti deildarinnar er S. A. Bjornson, en ritari G. J. Jónasson.

Forseti séra Philip M. Pétursson flutti ársskýrslu deildarinnar á Gimli. Sú deild hefir hart nær áttatíu meðlimi. Þrír fundir voru haldnir á árinu. Einn fundur af þessum þremur var haldinn að elliheimilinu Betel, og var þar skemmt með söng, upplestri og myndasýningu. Deildin hefir ákveðið að láta gera sérstakan skrúðvagn, sem mun verða til sýnis á sérstöku hátíðarhaldi vegna aldarafmælis Kanada þann 1. júlí n. k. Vagn þessi mun taka þátt í skrúðför Íslendingadagsins að Gimli. Vagninn mun sýna fyrsta sveitarráðsfund Ný-Íslendinga, sem haldinn var árið 1875. Deildin gaf $50.00 í sjóð skáta, sem verja átti í ferðakostnað til Íslandsferðar á Alþjóðamót skáta, sem haldið var á Íslandi árið 1966. Þá hefir deildin gefið $100.00 í Leifs Eiríkssonar

sjóð (þ. e. sjóð þann, sem verja skal til minnisskjaldar þeirra Bjarna Herjólfssonar og Leifs Eiríkssonar). Forseti deildarinnar er Frank Olson, en ritari frú Ragna Baldwinson.

Ungfrú Shirley Thorsteinson flutti ársskýrslu Þjóðræknisdeildarinnar „Norðurljós" í Edmonton. Sú skýrsla bar vott um sérstaklega blómlegt starf. Deildin hefir efnt til stjórnarnefndafunda í hverjum mánuði að júní og ágúst undanskildum. Dansleikur var haldinn í marzmánuði, og á skemmtun 3. maí var fjallkona kjörin. Sunnudaginn þann næsta við 17. júní var haldin útisamkoma og efnt til kvöldverðar. Einnig var gerð sérstök ferð á slóðir Stephans G. Stephanssonar og blóm lögð á leiði skáldsins. Heimili Stephans var og skoðað og mjög rætt, hversu helzt mætti prýða og betrumbæta hið forna býli hans. Þann 4. júlí veittu félagar í deildinni aðstoð við sérstaka dagskrá, sem helguð var hinum gömlu Klondike dögum. Þann 5. október var haldinn dansleikur og skemmtiskrá á boðstólum. Söngflokkur deildarinnar hefir reglubundnar æfingar. Þann 8. nóv. var haldið samsæti og efnt til jólabazars. Á þeirri samkomu sýndi frú Sumarliðason myndir frá Englandi. Þann 9. des. var haldin jólasamkoma, og skemmti þar sérstakur barnasöngflokkur. Deildin gaf $150.00 í sjóð elliheimilisins Betel. Sömu upphæð var og komið á framfæri við elliheimilið Höfn í Vancouver; $100.00 dalir voru gefnir til slaghörpukaupa fyrir Hallveigarstaði í Reykjavík. Myndir voru teknar við heimsókn dr. Bjarna Benediktssonar forsætisráðherra Íslands og honum sendar í jólagjöf. Walter Arason sýndi myndina „Discover Iceland" og efnt var til sýningar á íslenzkum hannyrðum. Hér er enn við að bæta, að 10. janúar tók deildin þátt í skandinavískri hátíð, en við það tækifæri voru þjóðbúningar sýndir. Ekki má gleyma þorrablótinu þann 11. febrúar. Deildin hefir lofað fjárupphæð í Leifs Eiríkssonar sjóðinn. Forseti deildarinnar er Walter Arason, ritari er ungfrú Shirley Thorsteinson. Skýrslu ungfrú Thorsteinson var mjög fagnað af öllum viðstöddum.

**Fjórði fundur**

hófst þriðjud. 28. febr. kl. 2 e. h. Fyrsta mál á dagskrá voru skýrslur þingnefnda. Dr. Beck flutti skýrslu milliþinganefndar í skógræktarmálum. Kvað hann skógræktarmálum hafa miðað í rétta átt á árinu. Þessu til sönnunar las hann bréf frá bæði frú Marju Björnson og Hákoni Bjarnasyni. Í milliþinganefnd í skógræktarmálum voru kosin þau dr. Richard Beck, frú Marja Björnson og frú Kristín Johnson.

Í skýrslu fjármálanefndar var lagt til, að skýrslur embættismanna yrðu samþykktar, að væntanlegri stjórnarnefnd Þjóðræknisfélagsins yrði falið að styrkja Lögberg-Heimskringlu, að styrktarsjóður félagsins geri kunnugt, að tekið verði á móti peningagjöfum, svo sem minningargjöfum o. s. frv., að stjórnarnefnd athugi, hvort ekki sé unnt að fá því framgengt, að slíkar gjafir verði frádráttarhæfar við skattframtal, að öðrum óafgreiddum atriðum, sem fjármál varða, verði vísað til væntanlegrar stjórnarnefndar. Skýrslan var samþykkt samhljóða.

Jakob F. Kristjánsson bar þessu næst fram tillögu um viðbætur við 11. grein stjórnarlaga Þjóðræknisfélagsins, en sú grein ræðir skyldur stjórnarnefndar og afmarkar starfssvið hennar. Tillagan hljóðaði þannig, að við 11. grein (F) yrði bætt „Að stjórnarnefnd sé heimilt að veita undanþágu frá ákvörðun þessara laga til næsta þings, ef henni virðist slíkar undanþágur nauðsynlegar í þarfir deilda eða félagsins" og við sömu grein (G) „Að leggja skýrslu yfir slíkar undanþágur og ástæður fyrir þeim fyrir næsta þing." Tillagan var samþykkt.

Þessu næst var rætt drykklanga stund um eirplötu þá, sem í ráði er, að verði komið fyrir í Ottawa til minningar um Ameríkufund íslenzkra manna.

**Fimmti fundur**

hófst miðvikudaginn 29. febrúar kl. 10 f. h. Fyrst var flutt álit þingnefndar í útgáfumálum í þremur liðum, sem eru þannig: 1) Þingið þakkar ritstjórum Tímaritsins og þeim, sem hafa lagt ritinu efni, 2) þingið þakkar Guðmanni Levy, Halldóri Stefánssyni og Helga Johnson á Gimli fyrir auglýsingasöfnun í Tímaritið, 3) þingið felur væntanlegri stjórnarnefnd að ráða ritstjóra og ráðstafa útgáfu ritsins á komandi ári. Allir liðir hlutu samþykki. Jón Pálsson og frú Herdís Eiríkson gátu þess, að ýmsir söknuðu þeirra þátta, sem felldir hafa verið úr Tímaritinu, þ. e. „Helztu atburðir ársins" og „Dánarskrár". Flutti frú Herdís tillögu þessa efnis, að væntanlegri stjórnarnefnd verði falið að athuga möguleika á því að taka þessa þætti upp í ritið að nýju. Sú tillaga var samþykkt.

Nefndarálit allsherjarnefndar var aðeins einn liður, þ. e.: Að stjórnarnefnd Þjóðræknisfélagsins sé falið að þakka á viðeigandi hátt allar þær kveðjur, sem þinginu hafa borizt. Nefndarálit þetta var umsvifalaust samþykkt.

Grettir L. Johannson gaf þessu næst skýrslu um höggmynd þá, sem Þjóðræknisfélagið hefir gengizt fyrir að láta gera af dr. Vilhjálmi heitnum Stefáns-

syni. Vísast um það atriði til setningarræðu forseta, sem prentuð er hér að framan.

Nefndarálit þingnefndar í samvinnumálum við Ísland var í 6 liðum eins og nú skal greint: 1) Þingið lýsir ánægju sinni yfir væntanlegri Kanadaför forseta Íslands, herra Ásgeirs Ásgeirssonar, 2) þingið samgleðst íslenzku þjóðinni vegna farsællar lausnar í handritamálinu, 3) þingið þakkar hlýjar kveðjur heiman um haf, 4) þingið hvetur deildir Þjóðræknisfélagsins að styrkja Skógræktarfélag Íslands með fjárframlögum, 5) þingið beinir þeirri ósk til væntanlegrar stjórnarnefndar, að hún sjái svo til, að áframhald verði á heimsóknum góðra gesta frá Íslandi, 6) nefndin leggur til, að fyrirspurn Þjóðræknisfélags Akureyrar um gagnkvæmar hópferðir milli Íslands og Kanada á sumri komanda verði vísað til væntanlegrar stjórnarnefndar og henni falið að athuga möguleika á því að efna til hópferðar sumarið 1968. Allir liðir hlutu samþykki.

**Sjötti fundur**

hófst miðvikud. 29. febr. kl. 2:15 e. h. Fyrsta mál á dagskrá var kosning í stjórnarnefnd. Þessi voru kjörin: forseti: séra Philip M. Pétursson; varaforseti: Aleck Thorarinson (Haraldur Bessason baðst undan endurkosningu í þetta embætti); ritari: frú Hólmfríður Danielson; vararitari: Páll Hallson; féhirðir: Grettir L. Johannson; varaféhirðir: Jóhann T. Beck; fjármálaritari: Guðmann Levy; varafjármálaritari: frú Kristín Johnson; skjalavörður: Jakob F. Kristjánsson; fulltrúi á Vesturströndinni: Snorri Gunnarsson; endurskoðendur: Gunnar Baldwinson og Davíð Björnsson.

Nefndarálit þingnefndar í fræðslu- og útbreiðslumálum var í fimm liðum sem hér segir: 1) Þingið þakkar dr. Richard Beck nýútkomna bók, A Sheaf of Verses, 2) þingið leggur til, að Þjóðræknisfélagið hafi með höndum nokkur eintök af starfrófskveri og reyni að útvega endurprentun af íslenzku köflum þeim, sem birzt hafa í Lögbergi-Heimskringlu. 3) þingið beinir þeim tilmælum til stjórnarnefndar, að hún haldi áfram heimsóknum til deilda eftir getu, 4) þingið þakkar Gimli deild fyrir að halda við barnasöngflokki, sem m. a. syngur íslenzk lög, 5) þingið þakkar Íslendingum í bæði Edmonton og Brandon fyrir mikið framlag til íslenzkra menningarmála.

**Sjöundi fundur**

Forseti setti fund, flutti stutt yfirlit um starfsvið Þjóðræknisfélagsins og bauð hinn nýja varaforseta félagsins, Aleck Thorarinson, velkominn til starfa.

Um samkomur Þjóðræknisþings er það helzt að segja, að í Fyrstu lúthersku kirkjunni var haldin sérstök Þjóðræknismessa sunnudagskvöldið fyrir fyrsta þingdag. Dr. Valdimar Eylands flutti guðþjónustu, séra Philip M. Pétursson tók þátt í athöfninni, og dr. Beck flutti erindi. Að lokinni messu báru konur safnaðarins fram veitingar. Þessi athöfn fór fram fyrir fullu húsi, og það sama má segja um aðrar þær samkomur, sem haldnar voru um þingtímann. Frónsmótið var haldið mánudagskvöld, en þriðjudagskvöldið gekkst Icelandic Canadian fyrir samkomu. Miðvikudagskvöldið var svo lokasamkoma Þjóðræknisþings haldin. Á öllum þessum samkomum var mikið um góðan söng og hljóðfæraslátt, og á lokasamkomunni dönsuðu ungmeyjar íslenzka þjóðdansa undir stjórn Meros Leckow. Við það tækifæri afhenti forseti Þjóðræknisfélagsins herra Leckow skrautritað skjal í þakklætisskyni fyrir danskennsluna.

Fertugasta og áttunda þing Þjóðræknisfélagsins var bæði skemmtilegt og uppbyggilegt. Skýrslur þær, sem lesnar voru á þingfundinum, báru vitni um árangursríkt starf, og fulltrúar og aðrir gestir sýndu áhuga á málum félagsins. Spáir slíkt góðu um framtíð þess.

Stjórnarnefnd Þjóðræknisfélagsins þakkar deildum félagsins, fulltrúum og öðrum einstaklingum dyggilega unnið starf á liðnu ári og virðir þann áhuga og þá miklu ástundun, sem einkennir þennan litla hóp. Óskum við þess, að starf Þjóðræknisfélagsins megi blómgast og blessast um mörg ókomin ár. Hittumst heil á næsta þjóðræknisþingi.

**Hólmfríður Danielson,**
**ritari.**



Í fyrra var getið hér í Tímaritinu eirskjaldar nokkurs, sem gerður var til minningar um landafundi norrænna manna. Skjöldurinn var afhjúpaður þann 14. apríl 1967 í Þjóðbókasafninu í Ottawa af forsætisráðherra, Lester B. Pearson. Dr. P. H. T. Thorlakson talaði fyrir hönd gefenda, og fylgir hér mynd frá athöfninni.

# Auglýsingaskrá Tímaritsins

(Index to Advertisers)

Mr. John K. Laxdal
Mr. Hjalmar V. Larusson
Mr. S. Larusson
Mr. Walter J. Lindal, Q.C.
Mr. Sumarliði Matthews
Mr. John Marteinson
Mr. Agnar Magnusson
Mrs. J. Nordal
Mr. Snorri Alesson
Mr. and Mrs. Olafur B. Olson
Mr. Olafur Olafson
Sister Laufey Olson
Mrs. Sesselia Oddson
Mrs. Lily Olafson
Mrs. Asta Oddson
Mr. and Mrs. Joel Peterson
Mrs. Holfriður Pétursson
Miss Margret Petursson
Mrs. Thorun Petursson
Mr. Roy H. Ruth
Mr. Sveinn Sveinson
Mr. Sigurþór Sigurdson
Mrs. Hrund Skulason
Mr. F. Skaptason
Mr. Halldor Sigurdson
Mr. and Mrs. Hans Sveinson
Miss Rosa Sigfuson
Miss Regina Sigurdson
Miss Margret Sigurdson
Mr. and Mrs. Johann Sigurdson
Mrs. Grace Thorsteinson

Mr. Thorsteinn Thorsteinson
Mrs. Margret Thorbergson
Mrs. Valgergur Thorsteinson
Mr. Karl Thorkelson
Mr. Thorsteinn Thorsteinson
Mr. and Mrs. A. Thorarinson
Mr. and Mrs. Heimir Thorgrimson
Mrs. Sigrún Thorgrimson
Mr. and Mrs. S. Thorvaldson
Mr. Thor Thorsteinson
Mr. Orn Thorsteinson
Prof. and Mrs. Axel Vopnfjord
Mrs. Thorunn Valgardson
Mr. P. H. Westdal
Mrs. Ljotun Young
Mrs. Dora Breckman
Mrs. G. Thorlakson
Miss Lillie Breckman
Mr. and Mrs. Ingvar Gislason
Mrs. K. E. Porter
Mr. G. Sigmar
Mr. David J. Jonsson
Mrs. Freda Jonsson
Mrs. Helga Westdal
Mr. and Mrs. Helgi Jones
Mr. and Mrs. Halldor Bjornsson
Mrs. Guðný Matthew
Mr. and Mrs. Ingi Sveinsson

Mr. and Mrs. H. F. Einarson
Mrs. Elín Scott
Mr. and Mrs. Kari G. Olson
Mr. and Mrs. Scholdemose

**Deildin „Esjan", Arborg, Man.**

Thorbjorg Sigurdson (heiðursmeðtimur)
Gunnar Simundson
Veiga Johannesson
Thordur Anderson
Steinunn Bjarason
Björn Bjarnason
Sigurdur I. Sigvaldason
Guðjon Danielson
G. Lára Sigvaldason
Ögmundur Markusson
Pall Stefansson
Ragnar Karvelson
Eymundur Danielson
Guðni Sigvaldason
Aðalbjörg Sigvaldason
Rikka Magnusson
Andres Fjeldsted
Gergur Vigfusson-(látin)
Jonina Alexander
Steini Johnson
Brandur Finnson
Ben Danielson
Beatrice Martin
Sigga Kristjanson
Kristjon Finnson
Jóhannes Magnusson - (látin)

Ragnar Guðmundson
Guðrin Jonasson
Mrs. K. N. S. Fredfinnson
Binna Johannesson
Valka Nordal
Björn Arnason
Inga Arnason
S. O. Oddliefson
Mrs. Sigriður Johnson-(látin)
Thorunnn Lindal
Friðrik Finnson
Johannes Pálsson
Welhelm Pálsson
Lilja Martin
Jón Pálsson
G. K. Oddson
Lára Magnússon
Helgi Jakobson
Herdis Eirikson
Fanney Sigurdson
Joe T. Jónasson
Guðriður Gislason
Einar Johnson
Gisli Björnson
Jón Olson
Indiana Sigurdson
Sigfús Hildibrandson
Helgi Sigurdson
Guðrun Finnson
Emily Vigfusson
W. S. Eyólfson
Olga Anderson
Sigurdur Sigvaldason
S. V. Guttormson
Stefania Sigurdson
Gestur Vidal
Lárus Pálsson
Th. Pálsson
Kristján Th. Johnson
Guðrun Magnusson
Jódis Brandson
Elin Einarson
Sigrun Oddliefson
Simon Guðmundson
Friða Kristinnson
Indiana Kristinnson
Guðmundur Sigvaldason
Einar Gudmundson
Hjalmar S. Sigurdson
Guðjon Stefanson
Maria Nordal
Kristín Bendickson
Málfriður Einarson
Mrs. R. Paulson
Kritsjan Albertson
Stefan Thorarinson
Helgi Sigurgeirson
Kristín L. Skulason
Thordis Thompson
Malli Brynjolfson
Óli Ólafson
Axel Eyolfson
Sidurdur Wopnford
Óli S. Gislason
Halli Jónasson
Mrs. Tom Addison
Óli Johnson
Laugi Johnson
Valla Johnson
Johann M. Einarson
Wilfred Finnson
Jón Thordarson
Valgeir Stadfeld
Björn Björnson
G. Williams
J. K. Johnson
Gestur Pálson
Kristinn S. Guðmundson
Margret Simundson
Sigurdís Thorsteinson
Sigurður Pálsson

**"Gimli"**
**Icelandic National League - 1967**

Forseti
Benjamen Franklin Olson
V. Forseti
Jon B. Johnson
Skrifari
Mrs. Bjorn Baldwinson
V. Skrifari
Bjorn Baldwinson
Gjaldkeri
Adolf L. Holm
V. Gjaldkeri
Ingolfur N. Bjarnason
Fjarmalaritari
Adolf L. Holm
V. Fjarmalaritari
Baldur Peterson
Skjalavordur
Mrs. Helgi Stevens

**Meðlimaskrá**

B. V. Arnason
Charles Arnason
Gordon Arnason
Mrs. Gudjon Arnason
Joe T. Arnason
Mrs. Sigridur Arnason
Mrs. W. J. Arnason
Helgi Benediktson
Mrs. Sofia Benjaminson
Mrs. Jonasina Benson
Timoteus Bodvarsson

Mrs. Helga Demedash
Einar S. Einarson
Mrs. E. S. Einarson
Harry Einarson
Mrs. Harry Einarson
Ingi Einarson
Mrs. Ingi Einarson
Palmi F. Einarson
J. S. Gillies
Miss M. Halldorson
Miss Sigridur Hjartarson
Mrs. Adolf L. Holm
Dr. A. B. Ingimundsosn
Mrs. A. B. Ingimundsson
Interlake Insurance Agencies
Mrs. Gudny Isfeld
Helgi Johannesson
Dr. Jonas G. L. Johnson, M.D.
Mrs. J. B. Johnson
Jon V. Johnson
Jonas Th. Jonasson
Oli P. Josephson
Mrs. Oli P. Josephson
Miss Charlotte Kristjanson
Ted Kristjansson
Lestrafjelagid - Gimli
Gunnsteinn Magnusson
G. E. Narfason
Mrs. G. E. Narfason
Mrs. Ingibjorg Nelson
Dori Peterson
Mrs. Dori Peterson
Gudmundur Peterson
Mrs. F. E. Scribner
Mrs. Daniel Sigmundson
Bjorn Sigurdson
Miss Gudrun Sigurdson
Mrs. Margret Sigurdson
S. A. Sigurdson
Mrs. S. A. Sigurdson
Bjarni Sigvaldason
Eric Stefansson, M.P.
Mrs. Eric Stefansson
Miss Sigurbjorg Stefansson
Valdimar Stefansson
Mrs. Valdimar Stefansson
Mrs. Laurence Stevens
Mrs. Norman K. Stevens
Bjorgolfur Sveinsson
Mrs. Ingibjorg Sveinsson
S. Th. Sveinsson
Mrs. H. R. Tergesen
Mrs. Lara Tergesen
Mrs. Gudrun Thompson
Bjorgvin Thordarson
Miss J. V. Thordarson

**Deildin „Lunda" Lundar, Man.**

Forseti
Mr. Kári Byron
Varaforseti
Mrs. Björg Björnson
Skrifari
Mr. Gisli S. Gislason
Varaskrifari
Mrs. Rannveig Guðmundson
Féhriðir
Mrs. Hjalti Johnson
Varafehirðir
Mrs. Inga Steinthorson
Mr. Asmundur Freedman
Mrs. Gislina Freeman
Mrs. Margrét Johnson
Mr. Snorri Rögnvaldson

Mrs. Stína Goodman
Mrs. Ragnheiður Magnússon
Mrs. Margrét Lindal
Mrs. Sigrún Johnson
Mr. Ágúst Eyolfson
Mrs. Guðrin Eyolfson
Mr. Larus Johnson
Mr. Kari Pálsson
Mr. John Thorgilson
Mr. Arnold Erlendson
Mrs. Kristin Pálsson
Mrs. Ingibjörg Rafnkelson
Mr. Jón Steinthorson
Mrs. Anna Byron
Mrs. Pálina Eyolfson
Mr. J. A. Howardson
Mr. Leslie Johnson
Mr. Oscar Thorgilson
Mr. Rafnkel Eiriksson
Mrs. Emily Johannson
Mr. Olafur Hallson
Mrs .Guðrin Hallson

**Mountain N. Dak. Deildin "Bára"**

Johann J. Getson
Leonard Benson
G. J. Jonasson
Helgi Laxdal
Albert Shepard
Theodore Thorleifson
L. S. Janson
G. A. Gudmundson
Leo. J. Laxdal
Mrs. Vala Kristjanson
Mrs. Gardar Johnson
Frank Hall
H. S. Walsten
A. Thomason
Larence Northfield
Fred Olafson
Fred G. Johnson
Mrs. A. J. Hanson
U. G. Gudmundson
G. Gudmundson
Duane Byron
Alvin Melsted
Orval Haliday
Kenneth Gudmundson
Bill Paulson
Lauga Geir
Augustu Johnson
F. M. Einarson
Kenneth Indridason
John J. Jonasson
G. B. Olafson
Barney Einarson
Rodny Byron
Stefan Indridason
Johann Geir
Mrs. John Axdal
Chris S. Gudmundson
Helgi Reykdal
Simon S. Johnson
Leo Melsted
Ruby De Regnier
Joseph Anderson
Oscar Sturlaugson
John Einarson
Sylvia Stevenson
S. A. Bjornson
S. F. Bjornson
Margaret Johnson
Helgi Finnson
Vic Sturlaugson
Bill Thorsteinson
Arnor Simundson
A. E. Paulson
K. S. Johnson
Ivan Gudjonson

**Heiðursmeðlimir Báru eru þessir**

Dr. and Mrs. Richard Beck
H. B. Grimson
Fred Halldorson
O. G. Johnson
H. Olafson

**„Norðurljós", Icelandic Society of Edmonton**

Mrs. I. Alderdice

Mr. and Mrs. J. M. Anderson
Mr. W. Anderson
Mr. and Mrs. W. Arason
Mr. and Mrs. Al Arnason
Mr. and Mrs. Art Arnfinson
Corinne Arnfinson
Mr. S. F. Arnfinson
Mr. and Mrs. David Beatty
Mr. and Mrs. David Beatty
Mr. and Mrs. S. Benediktson
Mr. H. Bjarnason
Mr. and Mrs. Don Cameron
Mr. and Mrs. A. Campbell
Mr. and Mrs. Larry Chmelyk
Dr. and Mrs. C. M. Couves
Mr. and Mrs. Ralph Crawford
Mr. and Mrs. Stanley Crawford
Dr. and Mrs. F. R. Decosse
Dr. and Mrs. Geo. Drummond
Mr. and Mrs. G. Eamon
Mr. and Mrs. Glen Eyford
Mr. and Mrs. O. Eyford
Mr. and Mrs. R. Eyford
Mr. and Mrs. F. Fredrickson
Mr. and Mrs. G. Gislason
Miss Olive Goodman
Mr. and Mrs. B. Halldorson
Mr. and Mrs. H. Halldorson
Mr. and Mrs. G. Hawthorne
Mrs. I. Henrickson
Mr. J. Henrickson
Mr. and Mrs. A. Ingaldson
Mrs. J. Janssen
Mr. V. T. Janssen
Mrs. Ben Jeffrey
Mr. and Mrs. J. Johannson
Mrs. Thelma Johannson
Mrs. Gertie Johnson
Mr. Joe Johnson
Mr. M. Johnson
Mr. and Mrs. S. C. Jonsson
Oli Krtisjanson
Mrs. Sadie Lee
Mr. and Mrs. R. McFarlane
Mr. and Mrs. R. C. McNaughton
Mr. and Mrs. A. Mitchell
Mrs. Disa Murphy
Mr. and Mrs. L. Oddson
Mr. and Mrs. G. O'Hara
Mr. and Mrs. H. Olafson
Mrs. Thora Orr
C. H. Pollock
Dr. D. Regnavaldson
Mr. and Mrs. G. Roland
Mr. and Mrs. Don Shaw
Mrs. G. Sigurdson

Mr. and Mrs. C. Smith
Mr. and Mrs. Don Smith
Mrs. M. Smith
Mr. and Mrs. D. Stevens
Mr. H. Sumarlidason
Mrs. L. Sumarlidason
Mr. B. Thorlakson
Miss S. Thorsteinson
Mr. and Mrs. G. Thorvaldson
Mr. Dale Tutty
Mr. and Mrs. E. Valgardson
Mrs. Viola Wallbank

**Addition to member list of "Frón"**

Miss Sigrid Ólafson
Mrs. Helga Porter
Mrs. Sigrid Sigmar
Miss Lillian Breckman
Miss O. S. Jonasson
Mr. K. Bjarnason
Mr. and Mrs. S. V. Sigurdson
Mr. and Mrs. Ari Swainson
Mr. Björn Johnson
Miss Jonina Stefansson
Mrs. Aleck Moldovan
Miss Lara Kristjansson
Miss Mattie Haldorson
Mrs. Gytha Ryckman
Mr. and Mrs. T. K. Arnason
Mrs. V. Erlendson
Mr. Tom Thompson
Mrs. Geraldine Thorlakson
Mrs. Dora Breckman
Mr. and Mrs. John J. Arnason
Mrs. Jakobína Underwood
Mrs. Gudrun Eyrikson
Mrs. M. H. Rowland
Miss Ruth Benson






## *This is the key that does it*

With this little Eaton Account card you unlock the door to ease in shopping. You'll get the things you need NOW on low monthly payments. It's the modern way to shop and everybody should have it. Come to Eaton's eighth floow and get an Eaton Account tailored to your needs.